# ÁRDÍS

## ÁRSRIT

BANDALAGS LÚTERSKRA KVENNA

XI. HEFTI



WINNIPEG 1943

# ÁRDÍS

## ÁRSRIT

## BANDALAGS LÚTERSKRA KVENNA

XI. HEFTI

Ritstjórar:
INGIBJÖRG J. ÓLAFSSON
MARGRÉT STEPHENSEN

Managers:
GUÐRÚN JOHNSON
ÞORBJÖRG JÓNASSON

WINNIPEG 1943

# EFNISINNIHALD

# ÁVARP

**til íslenzkra mæðra, sem eiga sonu sína í herþjónustu.**

* * *

Beiðni samkvæmt ávarpa eg ykkur örfáum orðum, – bið eg fyrirfram afsökunar á því, að mér vefst tunga um tönn.

Tímarnir, sem við lifum á, sverfa fast að sálum margra manna, en engan snerta yfirstandandi örlög sárara, en konur – ýngri mæður og eldri, er sjá á bak sonum sínum til herþjónustu, er á sér stað heima, með ströndum fram, en einnig á fjarlægustu stöðum jarðar – á landi – legi og í lofti. Örlög lífsins eru svipþung og hörð. Frá þeim virðist engin undanþága eiga sér stað. Margri móður svíður sárt, þótt orðfá sé. Aflgjafinn bezti er bænin og traustið til Guðs, til að mæta með jafnvægi byrðum þeim, er skylda lífs bindur þeim á herðar. Þannig hafa íslenzkar mæður jafnan reynst vel – í þrauta göngum liðinna alda. Í traustinu á föðurvernd Guðs hafa þær öðlast styrk, fyrir hverja stund er framhjá fór–einn dag–eitt spor í senn. Orkulindir Guðs, styrkja þá er á hann vona.

Mörg eru líka gleðiefnin, einnig á þessum tímum. **Fyrst af öllu, bjargföst vissa um það, að guðleg vernd umvefur þá er að heiman fara, –ekki síður en þá er heima dvelja.** Staðhagsleg fjarlægð hverfur, er við minnumst þess, að þeir sem að heiman fara–eru inniluktir eilífum ástarörmum eins og við sem heima dveljum. Minnumst orða heilagrar ritningar. "Þótt eg lyfti mér á vængum morgunroðans og settist við ysta haf, einnig þar myndi hönd þín leiða mig, og hægri hönd þín halda mér." **Þetta er óþrotleg huggun, þeim er Guði treysta.**

**Annað tilefni til öryggis er það–öllum mæðrum hversu hugar styrkir hinir ungu eru sem að heiman fara, með hvaða jafnvægi og karlmensku þeir mæta nýrri reynslu er þeim hefir í hlut fallað.** Að sönnu veit eg það, að þér mæður trúið aldrei rógi þeim er oft hefir heyrst–að nýja kynslóðin myndi léttvæg fundin–er á reyndi–þér vissuð betur en það. Fátt hefir vakið aðdáun mína, sem það, hvernig hinir ungu, taka þessari reynslu, sem þó er líkleg til að gerbreyta allri framtíð þeirra –og þá hafði trauðla um dreymt. Hugglaðir, öruggir alvarlegir, fara synir ykkar að heiman, ákveðnir að taka öllu vel, öllu því er að höndum ber. Fumlausir og fáorðir ganga þeir fram til þjálfunar og þjónustu. **Þeir neita að fela sig bak við skólaveggi eða nokkra stofnun.** Þér, sem unnið þeim, fyllist aðdáun og innri vissu um að í þrautum og mannraunum muni þeir reynast vel!

Hugarfró er það góðri móður að vita sig hafa gert sitt ítrasta – með Guðs hjálp, til þess að undirbúa þá, sem bezt undir lífið–á gullnu hjáliðnu bernsku dögunum þeirra. Nú eru það áhrif ykkar og fyrirbænir, sem verða þeim haldbezta veganestið er fylgir þeim fram á veg– og verður þeim vörn og skjól–á tómleika stundum– í þrautum og mannraunum er þeir kunna að mæta. Sæl er sú móðir er á vitni sér í sál um það, að hafa rækt vel sitt helgasta hlutverk er Guð trúir hverri móður fyrir–sem sé það–að lyfta huga barns síns til Guðs–og kenna því að elska hann.

**Sigurður Ólafsson.**

---

# Kirkjan og mannfélagsmálin

**Eftir séra Rúnólf Marteinsson**

* * *

Yfir sköpunarsögu Biblíunnar er unaðslegur blær: hlýleiki, hreinleiki, ylur. Hún er eins og hljómleikur með mjúkum, hrífandi tónum. Sakleysi og fegurð dvelja þar. Þeir tónar samlaga sig hugarfari voru bezt þegar það hefir unað af ljóðum og þegar það býður Anda Guðs velkominn til sín. Hún segir frá guðlegum uppruna jarðarinnar og þess sem á henni er, gefur hugmynd um ætlun og heimili mannsins. Fegurstu tónarnir hljóma um sköpun hans. "Og Guð skapaði manninn eftir sinni mynd; hann skapaði hann eftir Guðs mynd; hann skapaði þau karl og konu. Og Guð blessaði þau og sagði við þau: Verið frjósöm, margfaldist og uppfyllið jörðina, og gerið ykkur hana undirgefna, og drotnið yfir fiskum sjávarins og yfir fuglum loftsins og öllum dýrum á jörðunni."

Jörðin, með allri fegurð sinni og öllum gæðum sínum var ætluð manninum sem heimili, umhverfi athafna hans og tækifæri til andlegs og líkamlegs þroska. Hér átti hann að eignast farsæld, og til þess voru nægileg skilyrði fyrir hendi.

Hvernig hafa svo mennirnir farið með sjálfa sig og heimilið, sem Guð gaf þeim?

Sumir þeirra hafa dregið fisk úr vötnum, sér og sínum til fæðu, grafið málma og önnur efni úr jörðu til þess að uppfylla þarfir menningarinnar; gert flutningstæki á landi, legi, og í lofti til þess að ferðast og og flytja nauðsynjar eftir þörfum; yrkt jörðina til þess ávextir hennar gætu endurnært menn og skepnur; stofnað verksmiðjur og smíðað tæki til

skjóls, nytsemdar og fegurðar fyrir heimilisfólkið; ræktað og endurbætt aragrúa af blómum og blómstur-runnum til þess menn mættu yndis njóta. Margt fleira hefir mannkynið gert heimilinu sínu til aðhlynningar.

Því miður er þetta ekki eina sagan: mennirnir hafa ekki ávalt farið með heimilið sitt eins rétt og unt var. Syndin kom til að saurga mannkynið og skemma heimilið. Allmikill hluti mannkynssögunnar hefir að segja frá ófullkomnum, syndugum mönnum, sem oft hafa gleymt því, að þeir voru skapaðir í Guðs mynd. Stundum hefir spámannleg rödd náð eyra þeirra, vakið þá af andvaraleysis draumunum, og beint sálarsjón þeirra að hinu guðlega. Þeir hafa þá gengið í endurnýjungu lífdaganna, tekið stórkostlegum framförum í andlegum efnum, og skapað athafnalíf, sem var dáðríkt og fagurt; en þegar stundir liðu fram hefir þetta, undantekningarlaust, ætíð dofnað, og stundum horfið með öllu.

Nú, í þessari hræðilegu styrjöld tala margir um nýskipun þjóða. Japanar tala um nýskipun fyrir Austurálfuna og Þjóðverjar fyrir Norðurálfuna. Báðir hóparnir eru í raun og veru að hugsa um að leggja allan heiminn undir sig og stjórna honum samkvæmt hinu nýja skipulagi, sem þeir sjálfir vilja smíða. Og þetta lendir ekki við orðin tóm. Báðir hóparnir hafa, í bili, lagt undir sig mörg lönd og þar eru þeir nú þegar að staðfesta og þroska nýskipun sína.

Hvernig er þessi nýskipun þeirra? Hún er fólgin í því að féfletta sigruðu þjóðirnar, taka auðsuppsprettur þeirra í sínar hendur, láta fleiri miljónir manna vinna sem þræla, taka af lífi í hundraða og þúsunda tali þá sem veita hið minsta viðnám þrælkuninni, upphugsa margvísleg ráð til að pynta hina sigruðu, þurka út þjóðernisleg sérkenni þeirra, beita ýmsum aðferðum til að gera þá siðspilta og veiklaða, yfir höfuð kúga þetta fólk sem miskunarlausir fantar.

Móti þessu mæla Bandaþjóðirnar og heyja stríð til að gefa kúguðu þjóðunum enn á ný frelsi og sjálfstæði, og leiða frið, réttlæti og kærleika aftur í öndvegi veraldarinnar. Og vér teljum þetta svo göfugt ætlunarverk, að helzt engin fórnfærsla sé of stór til að ávinna þetta fyrir mannkynið.

Er þá ekkert hjá oss Bandaþjóðunum, sem þarf að nema burt eða endurbæta? Eru með oss engir menn, sem finna til þarfarinnar á nýju stjórnarfarslegu eða hagfræðilegu skipulagi? Þvert á móti mun það sannleikur að nokkurnveginn allir hinir miklu leiðtogar Bandaþjóðanna hafa mælt með ýmsum breytingum til batnaðar.

Er þetta draumur eða veruleiki? Er nokkur eiturnaðra í paradís vorri? Höfum vér ekki lýðstjórn, og er ekki það stjórnarfyrirkomulag hið allra fullkomnasta, sem mannkynið hefir nokkurntíma eignast, ein-

mitt það sem sumir göfugustu andar meðal manna hafa barist fyrir og fórnað fyrir öld fram af öld? Ekki dettur mér í hug að mótmæla því, en samt er það satt, að ástandið meðal vor, einnig í lýðræðislöndunum er margvíslega gallað.

Frelsið er ein æðsta hugsjón lýðræðisþjóðanna, en svokallað frelsi er stundum misbrúkað. Það á að vera frelsi, að allir leiki lausum hala, og enginn sé hindraður í neinu áformi nema hann drýgi glæp. Afleiðingin af því verður aðstaða Kains: "Á eg að gæta bróður míns?": tilfinningarleysi gagnvart öllum þeim sem eru minni máttar. Samkepni á að vera hið stærsta af öllum lyfistöngum framfara; en sé hún óhindruð verður hún ætíð aflgjafi hinna sterku. Þegar svo þessu afli hinna sterku er stjórnað af fégirnd og óráðvendni er afleiðingin augljós: stórum fjölda manna er steypt í ánauð og eymd. Ekki verður því neitað, að mikið er til af miskunarlausri samkepni, sem þrælbindur fjölda manna, í mörgum löndum heimsins, þar með sumum lýðstjórnarlöndunum.

Frelsi er í raun og veru ekki til á jörðunni nema í félagsskap við bönd. Spurningin verður aðeins: hvað á að binda og hvað á að vera frjálst? Maður, sem gefur öllum sínum lægri hvötum, eigingirni, hefnigirnd, ástríðum, lausan tauminn, er ekki frjáls til að þroska hina æðri hæfileika: kærleika, réttlæti, göfuglyndi.

En sannarlegt frelsi, frelsi mannsins til að elska föðurland sitt; lifa fyrir réttlæti og kærleika; láta leiðast af anda Jesú Krists; þroska, skýra rétta hugsun; efla krafta sína í baráttu fyrir hið góða í mannfélaginu; það frelsi er svo mikilsvert, að fyrir það má fórna lífinu.

Í hinum kristnu lýðræðislöndum, þrátt fyrir allar syndir vorar, höfum vér svo mikið af göfugu starfi kristinnar kirkju og dýrðlegum vöxtum þess starfs, að vér neitum að láta gera oss að þjónum hins gagnstæða. Að vera frjáls til þess að hugsa, tala og starfa sem kristinn maður er hið dásamlegasta hnoss. Í því felst það, alveg óhjákvæmilega, að vér viljum gera alt sem líf og kraftar leyfa til þess að aðrir eignist sama frelsi.

Hvernig verður ráðin bót á því sem að er? Sumir svara: með því að gera einstaklingana betur kristna. Aðrir hyggja, að þetta verði aðeins gert með því að breyta stjórnarfarinu eða hinni hagfræðilegu tilhögun þjóðanna. Um þörf hins fyrra ætti engum manni að blandast hugur, en má vera, að hagfræðileg tilhögun sumra þjóða geti fengið betra skipulag en það sem nú er í gildi.

Mikils er um það vert, að margir leiðtogarnir eru farnir að sjá það sem að er og kannast við þörfina á því að ráða bót á atvinnuskortinum, hungursneyðinni, sóðahverfum stórborganna og mörgu fleira.

Sir William Beveridge á Englandi hefir t. d. lagt fyrir brezka þingið frumvarp til laga, í mörgum þáttum, sem hefir þann tilgang að bæta úr

neyðarástandi þjóðarinnar. Hann nefnir fimm hrímþursa, sem standa í vegi fyrir farsæld mannfélagsins, en þeir eru: skortur, vanheilsa, vanþekking, óþverri og iðjuleysi. Þessa jötna vill hann leggja að velli með frumvarpi sínu. Dr. Leonard Marsh hefir lagt samskonar frumvarp til laga í Canada, fyrir sambandsþingið í Ottawa.

Frægust af þessum tillögum um endurbætt ástand fyrir þjóðir heimsins er niðurstaða sú sem forseti Bandaríkjanna, F. D. Roosevelt, og forsætisráðherra Bretlands, Winston Churchill, komust að, er fundum þeirra bar saman einhverstaðar á Atlanzhafi, 9.-11. ágúst árið 1941, og hefir fengið nafnið "Atlantic Charter". Ef til vill mætti nefna þessar ályktanir þeirra stjórnarskrá hins nýja þjóðasambands sem þeir vilja stofna. Þeir hafna allri ásælni í lönd annara þjóða, en öllum þjóðum og stéttum vilja þeir tryggja réttlæti, frið og frelsi. Þeir vilja bæta atvinnumálin svo, að sérhver einstaklingur eigi kost á viðunanlegum lífskjörum. Roosevelt forseti framsetti síðar sama málið með örfáum orðum: hann vill vinna að því að frelsa alla menn frá hræðslu og skorti og veita öllum mönnum trúarbragðafrelsi og skoðanafrelsi.

Þá spyr einhver: hvað kemur þetta kirkjunni við og hvaða þátt má eigna henni í þessum umbótum? Þetta kemur henni afarmikið við. Grundvöllurinn í öllum sönnum umbótum verður ávalt að vera andlegur og siðferðilegur. Engin önnur stofnun á jörðu á önnur eins tök á því að tala til samvizku mannanna, sýna þeim vilja Guðs áhrærandi réttlæti og kærleika, vekja menn til að berjast á móti ranglæti og siðspillingu og gefa hagfræðingum hvöt til að reikna dæmi mannfélagsins eftir vilja Guðs og því bezta viti sem mannkynið á yfir að ráða.

Þessu á kirkjan að sinna, og þessu er hún að einhverju leyti að sinna. Ein slík viðleitni er þing sem haldið var af ýmsum deildum kirkjunnar í Bandaríkjunum í Delaware-bæ í Ohio-ríki, 3.-5. marz 1942. Mikilsvirt nefnd lagði þar fram eftir mjög ítarlega athugun, tillögur um það hvernig semja mætti og tryggja réttlátan og varanlgan frið. Sumt í þeim samþyktum birti eg hér með:

1. Mennirnir eru börn Guðs og þar af leiðandi bræður.

2. Í augsýn Guðs eru mennirnir eining. Enginn hópur manna er lægri en annar.

3. Guð hefir gefið mönnunum jörðina til að vera sameiginlegt heimili þeirra allra.

4. Allir menn ættu að hafa rétt til að dýrka Guð eftir sannfæringu og samvizku.

5. Velferð mannkynsins hvílir á siðferðislögmáli, sem það brýtur ekki nema sér til tjóns.

6. Vér erum sannfærðir um þann tilgang Guðs, að í Jesú Kristi verði ein hjörð og einn hirðir. Það er því skylda kristinnar kirkju að vinna að því að snúa einstaklingunum til Guðs og mynda það mannfélagsskipulag sem gerir þeim unt að lifa og þroskast sem kristnir menn.
7. Í friðarsamningunum ætti ekki að vera neitt sem örfar menn til hefnda.
8. Í framtíðinni ættu allar þjóðir, að sameinast um eina alheims yfirstjórn.
9. Vér fordæmum hverja þá tilhögun í atvinnumálum sérhverrar þjóðar, sem skipar gróða einstaklingsins í hærra sess en velferð og lífi verkamannanna, fordæmum alla þá græðgi sem fer með verkalýðinn eins og vélar.

Þetta er ekkert heildaryfirlit yfir nefndarálitið, heldur aðeins fáeinar hugmyndir sem þar finnast, á víð og dreif.

Rúm er hér ekki til að flytja ágrip af því sem hinn mikli mannvinur, Dr. William Temple, erkibiskup og æðsti maður ensku kirkjunnar, hefir látið í ljós en eg ætla að enda mál mitt með bæn sem komin er frá honum:

"Almáttugi Guð, þú sem ert konungur og dómari allra þjóða, lít þú á veröldina sem þú hefir skapað, og gef réttlætinu sigur, svo að friður komi enn á ný, og allir menn læri að búa saman í frelsi og góðvild fyrir Jesúm Krist Drottin vorn. Amen."

---

# FRAMTIÐARHORFUR

**Erindi flutt á þingi Bandalags Lúterskra Kvenna 2. júlí 1943**

**af Kirstínu H. Ólafson.**

Engum orðum þarf að eyða til að útmála hvað stríð og styrjaldir eru sorgleg og syndsamleg fyrirbrigði. Það er ekki aðeins að tímanlegum verðmætum sé þar fleygt út í eyðilegginguna, heldur er öllum betri tilfinninum, réttlæti og kærleika misboðið, á ömurlegasta hátt. Heilsu, limum og lífi upprennandi glæsilegs æskulýðs er miskunarlaust fórnað. Það væri gagnslaust að fara legra út í þetta, því flest, líklega öll höfum við haft persónulega reynslu, persónulegan sársauka sem á rót sína að rekja til þrömunga stríðsins sem nú geysar, eða þess þar á undan.

Já, mörg eru þau verðmæti sem þegar eru fallin í val yfirstandandi styrjaldar, og margar þær framfarir sem virðast standa í dauðans háska. En þegar við hugsum um framfarir, skulum við gera okkur grein fyrir því, að svokallaðar framfarir hafa ekki allar jafnmikið gildi. Í eðli sínu eru aðeins það sannar framfarir sem eru í samræmi við þann þroska, þá

fullkomnun, sem Guð ætlar sínum lýð, mannkyninu. Þráfaldlega verður okkur það á, að kalla alt framfarir sem við keppum eftir, hafi það vöxt og viðgang og beri mikinn ávöxt. Við höfum gjarnan talið það hámark framfaranna, að mikið væri að gera, að verzlunarviðskifti væru fjörug og arðberandi, að allir hefðu peningaráð mikil og gætu veitt sér öll hugsanleg gæði og munað, að okkar þjóð næði að bera ægishjálm yfir öðrum þjóðum, svo enginn þyrði að bjóða henni byrginn, né jafnvel gera kröfu til að standa henni jafnfætis.

Möndulríkin svokölluðu eða öllu heldur þeir menn sem þar standa fyrir málum hafa líka þá hugsjón að komast hátt í heiminum, að standa þar efst á tindi valda, auðs og vegsemdar. En valdhafendur þessara ríkja afneita algerlega að nauðsynlegt sé að skipa málum sínum og aðferðum í nokkurt samband eða samræmi við vilja Guðs eða tilgang hans með lífið.

Okkar þjóðir hafa þó altaf haft einhverja meðvitund um það, að ef Guð bygði ekki húsið, erfiðuðu smiðirnir til ónýtis; einhver tilraun verið gerð til að vera verklega í sambandi við Guð. Þetta hugboð, þessi tilraun hefir orið til þess að þrátt fyrir alla blindni, öll mistök, alla uppreisn, hefir þó þjóðfélögunum skilað nokkuð áleiðis á vegum mannúðar og bróðurkærleika. Er þetta famför í orðsins réttu merking, því það er í samræmi við hið æðsta og helzta boðorð, það, að elska Guð og náungann.

Þessi munur á stefnu möndulríkjanna og sambandsþjóðanna er ástæðan fyrir því ,að málstaður möndulríkjanna hefir frá byrjun verið ómögulegur til sigurs, því í guðleysis stefnu þeirra er ekkert sem hefir eilíft gildi. Í stefnu sambandsþjóðanna er eitthvert brot af anda Krists. Og það verðmæti er eilíft, og rís upp aftur til sigurs, jafnvel þó það virðist fara halloka um hríð. Þetta lífræna afl í sannkölluðum framförum er svo sterkt, að jafnvel stríð megna ekki að eyðileggja það. Meira að segja verður stríðið, í hendi forsjónarinnar til þess að hrinda þeim áleiðis.

Veraldarstríðið hið fyrra, hafði stórkostleg áhrif á líf og menning þjóðanna. Sú hreyfing, sá hraði sem rekstur stríðsins útheimti, náði ekki aðeins til hersins og herstjórnarinnar, heldur einnig til þjóðlífsins alls. Ýms ný skilyrði sem skapast höfðu beinlínis eða óbeinlínis vegna stríðsins, urðu til þess að koma stórkostlegu róti á hugsanir og athafnir fólksins. Bílarnir sem um þetta leiti voru að verða almennir, gerðu samgöngur greiðar. Radíóið, sem þá var ný uppfynding, fór upp úr því að hafa sterk áhrif á ímyndunarafl og útþrá almennings, og opna augun fyrir ótal möguleikum sem engan hafði dreymt um áður. Talsíma samband í borgum og sveitum flýtti fyrir hreyfingunni. Rafleiðsla út um allar jarðir, varð til þess að létta vinnuna og stytta vinnutímann. Sömuleiðis nýjar og endurbættar vélar til allrar vinnu. Umbætur í heimilisskipun og klæðaburði áttu sinn þátt í að gera lífið léttara og þægilegra. Og

síðast, en ekki sízt varð kvenfrelsið sem þá var að ná sér niðri til þess að breyta lifnaðarháttum. Konur, sem fram að þessu hafði verið skipaður bekkur innan heimilisins, og að mestu leyti aðeins þar, tóku að leita út fyrir heimilin og að skapa sér nýja atvinnu og menningar möguleika, á ótal nýjum sviðum.

Það geta verið skiftar skoðanir um hvert alt þetta hafi verið sannar framfarir. Sennilega hefir þessi hreyfing, þessi hraði, þetta frelsi, verið vanbrúkað á stundum, og þess vegna valdið slysum. En ætli gamla kyrstaðan hafi ekki einnig verið sek um slíkt hið sama, á sinn hátt. Og varla get eg ímyndað mér að nein okkar mundi óska sér eða sínum aftur undir gömlu lífsskilyrðin.

Meðan á fyrra stríðinu stóð, fanst manni til um hvað viðfangsefnið var viðurhlutamikið. Og þegar við lítum til baka, sjáum við að miklu var afkastað með tækjunum sem þá voru handbær. En þegar við svo berum þetta saman við verkefnið sem nú liggur fyrir, og tækin sem nú eru til, verður hið fyrra sem smámunir í samanburði við hið síðara. Hamfarirnar hinar fyrri sem barnabrek í samanburði við jötuntökin sem nú eru gerð. Enda er nú öllum kröftum líkams og sálar etjað móti ósköpunum. Ekkert er sparað. Öllu er fórnað. Önnur eins átök hafa aldrei fyr verið gerð. Annað eins rót hefir aldrei hrifið mannlífið .

Sem stendur er öllum framkvæmdum beitt til að vinna stríðið. Öll vinna, öll viðleitni vísindanna stefnir aðeins að því markmiði. Nýjar leiðir finnast til þess sem gera þarf. Ný efni, ný áhöld koma í brúk. Og í átökunum aukast kraftarnir. Hvílíkur kraftur til eyðileggingar! En hvílíkt afl, einnig, til uppbyggingar, þegar því verður beitt til að endur byggja það sem stríðið hefir brotið niður, til að endurreisa mannfélagið til nýs og betra lífs.

Charles M. A. Stine, vara-forseti hins volduga DuPont de Nemours félags í Wilmington, Delaware, flutti fyrirlestur 7. september í fyrra, á fundi American Chemical Society, sem haldinn var í Buffalo, N. Y. Meðal annars farast honum orð eitthvað á þessa leið: í dag framleiðum við með því augnamiði að eyðileggja. Á morgun framleiðum við í því skyni að endurreisa. Áframhaldandi uppfyndingar og framleiðsla munu margfalda eignir þjóðarinnar tífalt. – fimtugfalt – hundraðfalt. Að fengnum sigursælum friði mun straumur allsnægta velta yfir þjóðina. Þá verður undir því komið að við höfum framsýni og djörfung til að notfæra oss þessar nægtir, sjálfum oss og heiminum til gagns, eða við látum þær hrúgast að okkur, og verða til vandræða.

Svo telur hann upp nokkur dæmi af framtíðarhorfunum, og byggir þau á uppfyndingum sem þegar eru til, og nothæfar. Fyrst hin nýju og endurbættu flutningstæki á landi, sjó, og í lofti, sem muni gerbreyta samgöngum, og margauka möguleika almennings til að nota þær, sér

til gamans og gagns. Þar næst nefnir hann endurbætt húsakynni, sem verði bæði fögur og hentug. Húsin munu þá verða bygð í verkstæðunum, í pörtum, sem falli nákvæmlega saman, eins og bókahyllur í nútíðar bókaskápum, og sem hægt verði að setja saman með lítilli fyrirhöfn. Rafhituð og raflýst eiga þessi húsn að vera, og það svo haganlega að engin fyrirhöfn fylgi. Svo næm eiga hitunar og birtu tækin að vera, að þeim er ætlað að tempra hvort tveggja af sjálfsdáðum í nákvæmu samræmi við hlýindin og birtuna utan dyra. Birtan verður líkust dagsbirtu að lit, og mjög þægileg auganu. Alt ryk og blómaduft hreinsast úr loftinu í hringferð þess um hitunar og kælingar tækin og við það verður andrúmsloftið innan dyra mikið heilnæmara. Heilsufar heimilisfólksins ætti af þessari einu ástæðu að verða mikið betra en nú á sér stað.

Þar að auki mun matarhæfi verða ákaflega mikið hollara en við eigum að venjast, því það verður aðallega miðað við nákvæmar þarfir líkamans. Aukin þekking á þessu sviði hefir þegar náð sér talsvert niðri manna á meðal, en má þó teljast aðeins í byrjun. Ennfremur kemur þá hin stóraukna þekking á læknisvísindum að góðu haldi.

Alt þetta ætti mjög að auka á lífsþægindin, og gera lífið létt og unaðslegt. Óneitanlega er þetta fögur mynd, — fagur framtíðardraumur. Þó gerir vísinda og athafnamaðurinn Dr. Stine þá athugasemd, að til þess að öll þessi lífsgæði geti orði til blressunar og sannra framfara, þurfi bæði framsýni og djörfung. Annars geti nægtirnar oðið til vandræða og ógæfu.

Og hver mundi þá sú ógæfa geta verið? Frá mínu sjónarmiði sú, að við létum nægtirnar leiða oss í þá freistni að gleyma því að maðurinn lifir ekki á brauði einu, heldur þarf að tileinka sér þann kraft sem heldur honum í trúarlegu og verklegu sambandi við Guð. Ógæfan sú, að við aftur mistum sjónar á því að auður, völd og munaðarlíf, hafa ekki í sér fólgið hið lífræna afl kristsandans, sem þarf að vera aðal kjarni allra framfara. Ógæfan sú, að vér tækjum á ný að hrifsa hver til sín af þessum gæðum, án tillits til þess hvort sumir meðbræður okkar og náungar yrðu raunalega afskiftir.

Oft er talað um hið yfirstandandi stríð, sem algert stríð, (total war), vegna þess það snertir allar manneskjur á öllum sviðum lífs þeirra. Rekstur þess getur útheimt alla þeirra lífs og sálar krafta, allar eignir, og ef þörf gerist, jafnvel lífið sjálft. Að sama skapi má búast við að endurreisnar tímabilið, sem kemur á eftir stríðinu, verði algert endurreisnar tímabil (total reconstruction period), og að það krefjist liðs allra manna. Það verður að líkindum tímabil áframhaldandi erfiðis, sjálfsafneitunar og fórnfærslu.

Eitt af undarlegum fyrirbrigðum þessarar styrjaldar er það, hvað mikil áhersla er lögð á afstöðu og framkomu einstaklingsins, hvar og

hvernig sem hann er settur í þjóðlífinu. Dagleg breytni hans er talin að geta haft ótrúlega mikil áhrif á framgang stríðsins, annaðhvort heppileg eða óheppileg. Þess vegna er hann stöðugt varaður við ýmsu sem gæti orðið til ills, en eggjaður til þess sem koma mætti að gagni. Hann er varaður við lausmælgi, við eyðslusemi til matar, fata, eða annara persónulegra þarfa. Hann er ámintur um að vera nýtinn á alt ætt og óætt, og að láta ekkert fara til spillis. Honum er ráðlagt að vera óeigingjarn í viðskiftum við aðra og að láta í té alla hjálpsemi, þeim sem hann nær til. Hann er eggjaður á að láta af mörkum, alt það fé sem hann getur við sig losað velferðarmálum mannfélagsins til hjálpar. Honum er innrætt að láta hvorki hatur né hefndarhug til óvinanna, fá yfirráð í huga sínum. Honum er innrætt að venja sig á að launa hið illa með hinu góða. Alt er þetta lífsspeki bygð á kristilegum dygðum sem í sér hafa skilyrði til að lyfta lífinu í hærra veldi.

Á kristilegum grundvelli verður hið endurreista þjóðlíf að standa. Annars á það enga framtíðarvon. Hvort þá tekst að eignast slíkan grundvöll er að miklu leyti undir því komið hvort við eigum nægilegt kristilegt víðsýni, nóga kristilega djörfung, nógan kristilegan kærleika.

Þó undarlegt megi virðast verður það nú stríðið sjálft sem leggur til meginþáttinn í endurreisnar starfið. Pilttrnir sem við horfðum á eftir út í herþjónustuna, með grátandi tárum, koma heim aftur meiri og betri menn en þeir fóru, og færari til að vinna hið þýðingarmikla starf. Þeir hafa verið þjálfaðir, og mentaðir í ótal greinum og hafa þar af leiðandi fundið sjálfa sig, og hæfileika sína. Þeir munu því ekki þurfa að ganga grufflandi að verkahring sínum. Ferðalög þeirra út um víða veröld, munu hafa aukið þeim þekking, og gefið þeim víðsýni svo mikið, að þeir líti veröldina alla sem verksvið sitt. Djörfung mun þá ekki skorta, því djörfung og dugnaður hefir verið undirstöðu atriði í lífi þeirra allan herþjónustutímann. Kristilegur kærleiksandi er þegar farinn að berast heim frá þeim, gegn um bréfin þeirra og fórnfærslu. Okkur er sagt, að guðleysingjar finnist ekki í búðum áhlaupaherins.

Og við einstaklingarnir heima fyrir, ættum hvorki að vilja né geta setið hjá án þátttöku í hinu mikla starfi. Við hljótum að taka okið oss á herðar, og munum finna að það er undarlega létt. Sem kristnar konur viljum við hér samankomnar taka oss það á herðar með gleði, í Jesú nafni.

**Kirstín H. Ólafson**

---

# Trúboðsfélag Selkirk safnaðar

Eftir Maríu Hinrikson

Þegar Mrs. Ólafsson bað mig að skrifa sögu okkar smáa trúboðsfélags hafði eg einlægan vilja að verða við bón hennar, langaði að gera tilraun vegna þess að mér þykir vænt um félagið. Komu í hugann margar dýrmætar endurminningar um kærleiksríka samfundi og ánægjulega samvinnu. Áræðið til að byrja á skriftinni fékk eg fyrir loforð Mrs. Ólafsson að hún skyldi lesa yfir og lagfæra prófförkina; fyrir það er eg henni þakklát.

Trúboðsfélag Selkirk safnaðar er elzta trúboðsfélag kirkjufélags vors. Á síðast liðnu ári hafði það starfað í þrjátíu ár. Hugsjón þess og stefna er bezt lýst í eftirfylgjandi ljóði eftir séra N. S. Thorlákson. Sendi hann félaginu það um jólin 1933.

Félagið litla sem lítið berst á
lítið þó sé hinum stóru hjá,
samt er í lífinu liður;
út yfir heimaból hefir það séð.
Helga í starfinu vill vera með
heimi og flytjist Guðs friður.

Guði frá kallið kom kært til þess heim
konungi manna að hlýða þeim
er sigra vill sálir svo lifi.
Í þjónustu vildi það vera hans
vinarins bezta sérhvers manns,
skýrt svo hans nafn á líf skrifi.

Félagið litla sem lítið berst á
lifir í von um að fá að sjá
hærra í heiminum rísa
sólina Hans sem er himinsins ljós
himna og manna sigurhrós,
mönnum í myrkri að lýsa.

Félagið litla sem lítið berst á,
Lítinn þó árangur fái að sjá,
horfir þó vongott til hæða.
Árangur lífsins sézt allur þar,
eilífar græðast þar vonirnar
fullkomnun allra fræða.

Það var á sjö vikna föstunni að Mrs. N. S. Thorlakson heimsótti nokkrar konur og vakti hjá þeim áhuga til að kynnast erlendu trúboði. Þegar þær höfðu kynst því starfi hlaut hitt að fylgja að hafa löngun til að styrkja það. Bauð hún þeim á fund á prestsetrinu 6. marz 1912. Sjö konur mættu á þessum fyrsta fundi. Þegar staðið var upp frá kaffi borðinu skýrði séra Steingrímur frá tilgangi fundarins var svo sunginn sálmurinn "Ó Drottinn minnar sálarsól". Séra Steingrímur las biblíu kafla og flutti bæn og skýrði frá trúboðsstarfi kirkjufélagsins. Fóru svo fram kosningar þar sem þessar konur voru settar í embætti: Mrs. N. S. Thorlákson, forseti; Mrs. A. S. Nordal, gjaldkeri og Mrs. E. J. Hinrikson, ritari. – Aðrir stofnendur voru: Mrs. Th. Anderson, Mrs. R. S. Benson, Mrs. S. J. Stefánson og Miss Margrét Thorlakson. Stofnskrá var samþykt. Tilgangur félagsins er að auka þekking á trúboðsstarfi og áhuga fyrir því og styrkja það starf eftir mætti.

Trúboðsfélagið er smæðsta starfsgrein safnaðarins; tuttugu konur hafa gerst meðlimir. Aldrei hefir neinn meðlimur sagt sig úr félaginu en 8 konur hafa flutt úr bænum af meðlimum þess. Fundir eru ávalt haldnir á heimilum meðlima. Prestur safnaðarins er ávalt á fundum og hefir guðræknisstund í fundarbyrjun og flytur erindi á íslenzku eða ensku um þau málefni sem félaginu eru hjartfólgnust. Prestkonur safnaðarins eru ávalt forsetar trúboðsfélagsins. Aðkomnir gestir sem hafa flutt bænir, erindi eða talað uppörfandi orð til félagsins eru þessir: Trúboðshjónin séra S. O. Thorlákson og Mrs. Thorlákson í hverju heimfararleyfi þeirra og bréf þeirra ávalt lesin á fundum.

Séra Friðrik Friðriksson, Reykjavík, 1914-15.

Miss Sigrid Esbhern – trúboði frá Inlandi, 1914.

Mrs. María G. Árnason, Minneota, Minn., 1914

Ástvaldur Gíslason, Reykjavík, 1918.

Séra H. Sigmar, 1913–1917–1920–1921.

Mrs. R. Marteinsson, Winnipeg, 1923.

Séra Sigurður Ólafsson, Gimli, 1927.

Í mörg ár stóð félagið fyrir einni samkomu á ári en síðustu ár hefir það fallið niður, en peningum hefir verið safnað með því að fara heim til safnaðarfólks og beðið hefir verið um frjáls tillög.

Árið 1925 flutti Miss Edna Sutherland fyrirlestur og sýndi myndir af Píslarsögunni eins og hún var sýnd í Oberammergau. 1928 var Rev. Buchanan trúboði frá Indlandi programs gestur; flutti erindi og sýndi myndir. 1926 flutti séra Steingrímur erindi um ferð þeirra hjónanna til Noregs og Íslands. 1931 gaf Dr. B. J. Brandson félaginu samkomu, sýndi hreyfi- og skuggamyndir af hátíðahaldinu á Íslandi 1930.

Á hverju ári hefir félagið gefið í trúboðssjóð kirkjufélags vors. Hefir það gefið alls eitt þúsund, sjö hundruð og tuttugu og þrjá dali ($1,723.00). Sýnir það glögglega hvað lítill hópur getur áorkað í kyrþey. Yfir fundunum hvílir helgur blær, hópurinn nemur staðar á afviknum stað til að færast nær honum sem sagði: "Farið og gerið allar þjóðir að mínum lærisveinum."

Erindin sem eg lýk þessu með voru send félaginu síðastliðin vetur. Munu þau vera hið síðasta sem okkar látni leiðtogi orti:

---

**Nýárskveðja til trúboðsfélags Selkirk safnaðar 1943**

* * *

Komu jól með gjöf og gleði,
gæði drottinleg,
Kærleiks yl er gefur gleði,
greiðir lífi veg.
Kærleiks veg.

Kveikir ljós í kristnum hjörtum
kærleiksljósið bjart,
Loga á með ljóma björtum –
ljóminn kvennaskart,
lífsins skart.

Gæðin jóla greipt í hjarta
gjöful verður mund.
Kærleiksrósir skærast skarta
skín og hýrust lund,
lífsglöð lund.

Sama prýðir ættar yndi
ykkur konum með
Sama hlýjan ljúf í lyndi,
líknarhugult geð,
góðvirkt geð.

Hlýtt við þökkum heimsókn hýra
holla að gömlum sið.
Alreynd gæði, alúð skýra
alt sem veittuð þið,
ávalt þið.

Árið nýja biðjum bera
Blessun dýra í skaut.
Frelsis ár og farsælt veri
Frelsarans á braut,
friðarbraut.
Gleðilegt ár!

Hjartanlegast,

Erika og Steingrímur

---

# SYSTURNAR ÞRJÁR

**Erindi flutt af Ingibjörgu J. Ólafsson**
**á þingi Bandalags Lút. Kvenna,**
**í Winnipeg, 1. júlí 1943.**

* * *

Þegar eg var að velja umtalsefni fyrir þetta erindi var eg þeirrar skoðunar að okkur væri það ekki óljúft að komast út fyrir heimahagana um stund. Vildi eg því bjóða ykkur að hverfa með mér í anda til landsins sérkennilega og víðáttumikla hinum megin hnattarins. Landsins sem um eitt skeið hugðist geta hulið sig á bak við múrvegg til að forðast áhrif vestrænnar menningar, en sem þessi síðustu ár hefir staðið sem múrveggur til að stemma stigu fyrir afli eyðileggingarinnar. Á því hafa öldurnar brotnað sem hugðust að velta sér yfir austræn og vestræn lönd. Í hinu mikla Kínaveldi vildi eg gera ykkur kunnug aðaldráttum úr æfisögu og starfi þriggja kvenna. Það eru systurnar þrjár, sem á síðustu árum hafa leyst af hendi svo þýðingarmikið starf í að leggja grundvöll fyrir framtíð hinnar kínversku þjóðar.

Fyrst vildi eg biðja ykkur að hverfa um augnablik sjötíu og þrjú ár aftur í tímann. – Árið 1870 er fólksflutningsskip að leggja til hafs frá Kína til Bandaríkjanna. Meðal farþeganna er níu ára gamall kínverskur drengur Soong-Yao-ju að nafni. Hann er þungbúinn og þögull, tárin streyma ofan kinnar hans er hann horfir út á hafið. Hann er á leið til móðurbróður síns í Boston, sem hafði tekið hann sér í sonarstað, hjá honum átti hann að læra verzlunarfræði upp á kínverska vísu. Hin auðuga Soong ætt tilheyrði kaupmannastéttinni, allir drengir henni tilheyrandi urðu að feta veginn sem hafði verið lagður út fyrir þá, að

gerast kaupmenn og græða fé. Í huga drengsins var uppreisn á móti þessu. Hann þráði alt annað.

Það væri efni í heila bók að lýsa árunum sem hann dvaldi í Bandaríkjunum, en fá orð um það efni verða að duga hér.

Eftir að hafa verið þrjú ár innan við söluborð frænda síns hafði hann drukkið í sig ýmsa nýja siði. Oft hafði hann grátbeðið frænda sinn að lofa sér á skóla til að mentast, en hann bara brosti að þeim barnaskap. Svo eina nótt strauk hann, komst um borð í skip sem lá í höfn í Boston. Skipstjórinn, sem hét Charles Jones, hlustaði á sögu hans og afréð að hafa hann um tíma fyrir vikadreng á skipinu. Mér finst að einhver hulin kraftur hafi komið honum til að taka þá ákvörðun í stað þess að flytja hann heim aftur til hins auðuga frænda hans. Hann var sterktrúað göfugmenni og lagði rækt við að kynnast þessum einmana heiðna dreng. Á tómstundum þeirra kendi hann honum undirstöðuatriði kristindómsins, sem hann hlustaði á með fögnuði og hrifningu. Eftir stuttan tíma fór Mr. Jones með hann í land í North Carolina, sagði Meþodista presti nokkrum þar sögu hans og bað hann að eiga tal við hann. Varð hann undrandi og hrifinn af gáfum hans og skilningi. Lét hann þá skíra sig til kristinnar trúar og valdi sér nafnið Charles Jones Soong. Sagði að það væri viðurkenning fyrir þá miklu þakklætisskuld sem hann stæði í við hinn góða skipstjóra. Með hjálp prestsins komst hann þar á skóla en skipstjórinn hvarf aftur til starfs sín. Án efa hefir hann ekki órað fyrir hvaða undra þýðingu þetta góðverk hans hafði fyrir hina kínversku þjóð.

Árið 1886 (13 árum síðar) fer Charles Soong aftur heim til Kína, eftir hinn glæsilegasta mentaferil á nokkrum beztu skólum Bandaríkjanna. Hafði hann þá verið vígður prestur Meþodista kirkjunnar. Hann byrjar starf sitt sem kennimaður í Shanghai. Alla æfi var hann ákveðinn trúmaður og jafn ákveðinn í að leggja alt í sölur til að leysa þjóð sína undan oki einveldis og áþjánar. Hann giftist kristinni konu sem var gáfuð, stórbrotin og réttlát. Hún hafði sérstaka löngun til að hlynna að og rétta hluta olnbogabarnanna. Þessi hjón voru foreldrar hinna frægu Soong-systkina — dætur þeirra þrjár eru systurnar er eg vildi tala um hér í kvöld.

Það heillar hugann að lesa um æsku ár þessara systra. Allar voru þær aldar upp í hinum strangasta aga. Elzta systirin, Eiling, byrjar skóla 5 ára að aldri, þegar henni er komið fyrir á trúboðsskóla í Shanghai, þar var hún lang yngst allra. Lýsir hún kvöldunum löngu sem aldrei ætluðu að líða þegar hún var þar ein í svefnherbergi sínu. Úr fjarlægð barst til hennar ómur af söng þar sem hinir eldri nemendur voru að syngja. "Eg sofnaði" segir hún, "kvöld eftir kvöld við það að hafa upp aftur og aftur orðin: **Help of the helpless, oh, abide with me.**"

Allar voru þær sendar til Bandaríkjanna til að mentast á ungþroska aldri. Elztu systurnar tvær dvöldu þar í sex ár, hin yngsta í tíú ár. Sú reynsla varð erfiðust fyrir þá elztu, þar sem hún var ein í skólanum af sínum þjóðflokk, þar til systur hennar komu. Án efa hefir ræzt á þeim að einstæðingsskapur þroskar sálarlífið. Þær fundu styrk í hinni hreinu og barnslegu trú sem þeim hafði verið innrætt heima, þær fundu einnig styrk í sjálfum sér þegar þeim hraus hugur við ýmsu sem þeim fanst koma í mótsögn við að þær dveldu í frelsisins landi. En eftir því sem árin liðu lærðu þær að elska landið sem gaf þeim svo mörg tækifæri til þroska; þær teiguðu af lindum þekkingarinnar og dreymdi um hve mikið þær gætu gert fyrir landið sitt þegar þær kæmu heim og tækju með sér alt það bezta sem þær höfðu numið.

Elzta systirin, Eiling, kemur heim stuttu fyrir stjórnarbyltinguna miklu 1910—12, þar sem fjögur hundruð miljónir sálna voru leystar undan oki kúgunar og einveldis, sem hafði legið sem farg á þjóðinni í fjögur þúsund ár. Aðal leiðtogar stjórnarbyltingarinnar voru þeir Charles Soong (faðir þeirra) og Sun Yat Sen. Nokkru síðar kemur næsta systirin, Chengling, heim og eftir nokkur ár hin yngsta — Meiling.

Við getum skilið að það var ekki sem léttast fyrir þær að njóta sín til fulls þegar heim kom: foreldrar þeirra höfðu brotið allar siðvenjur þegar þau sendu dætur sínar erlendis til menta. Þær komu heim með nýja siði og hinnar vestrænu menningar gætti mikils í allri framkomu þeirra og afstöðu. Fólkið leit á þær með tortryggni. Kvenþjóðin var ekki laus við afbrýðissemi og var alls ekki reiðubúin að láta leiðast af þeim. Enn á ný fundu þær sig einmana í sínu eigin föðurlandi.

En þær yfirbuguðu fljótlega alla þessa örðugleika. Þær voru allar hógværar og tilbakahaldandi að upplagi sér í lagi tvær hinar elztu, á skólanum hafði þeim aldrei tekist að vinna bug á þeirri feimni og hliðdrægni sem er svo rík í upplagi kínverskra kvenna. Hin yngsta, Meiling, var framgjarnari og brann af starfsþrá. Allar voru þær hreinskilnar og styrkar og allar gæddar miklum gáfum. Áður en varði voru þær farnar að njóta sín hið bezta, störfuðu af alúð og lögðu sitt til a koma á skipulagi eftir hin ógurlegu umbrot sem stjórnarbyltingin hafði í för með sér.

Þær komu á fót fjölda skóla fyrir munaðarleysingja — eitt af afleiðingum stjórnarbyltingarinnar voru hin mörgu þúsund ekkna og munaðarleysingja í landinu. Á meðal þeirra störfuðu þær af alúð og áorkuðu undursamlegum breytingum. Grundvöllurinn varð að vera traustur, og með vandvirkni varð að byggja þar ofan á. "Hin kínverska þjóð,' sögðu þær, "skal verða mentuð og kristin þjóð, systur okkar hér verðskulda að mega njóta sama frelsis og hafa sama tækifæri til mentunar og systur okkar vestan hafs."

Nokkru síðar giftist elzta systirin Dr. Kung, sem varð fjármálaráðgjafi hins nýja fyrirkomulags. Sú næsta að aldri giftist Dr. Sun Yat Sen, leiðtoga stjórnarbyltingarinnar og 15 árum síðar giftist Meiling — yngsta systirin — Chiang Kai-Shek, sem nú er forseti og yfirhershöfðingi í Kína.

Þegar hinn voldugi hershöfðingi feldi ástarhug til hinnar gáfuðu og fögru Meiling er sagt að tengdabróðir hennar, Dr. Sun Yat Sen, hafi ráðlagt honum að bíða um tíma áður en hann færði það í tal við móður hennar. Faðir hennar var þá dáinn, en systur og móður voru mjög mótfallnar þessum ráðahag af ýmsum ástæðum, en sér í lagi af því að hann var ekki kristinn. Og hinn stórhuga Chiang Kai-Shek varð að gera sér að góðu að bíða í fimm ár þangað til Mde. Soong veitti honum áheyrn. Kvaðst hún þá mundi gefa samþykki sitt ef hann tæki kristna trú. Hann lofaðist aðeins til að kynna sér grundvallaratriði hennar og lesa Biblíuna og kvaðst svo mundi koma aftur á fund hennar. Að nokkrum tíma liðnum kom hann og sagðist reiðubúinn til að láta skírast. Brúðkaup þeirra fór fram í lok ársins 1927.

Án þess að gera tilraun til að útskýra hina pólitísku flokkaskiftingu í Kína um það leyti, vildi eg aðeins geta þess að eins og þá hafði skipast til höfðu systurnar þrjár gifst leiðtogum hinna þriggja aðalflokka. Hver um sig var önnur hönd manns síns og fylgdu hans stefnu af lífi og sál; mætti því segja að þær voru merkisberar hinna þriggja pólitísku stefna. En systur í Kína slíta ekki einingarband þó skoðanir falli ekki saman; þegar annir leyfðu mættust þær á hinu fagra heimili móður sinnar, rifjuðu upp bersku minningar, földu sig fyrir fjöldanum og hvíldust um stund unz þær hurfu aftur heim til starfa. Þá sem fyr talaði móður þeirra um fyrir þeim að láta leiðast af vilja Guðs en ekki af sínum eigin vilja. Einungis þannig sagði hún gætu þær hjálpað til að byggja upp Kínaveldi sem þá var sundurtætt af innbyrðis óeirðum.

Ókleift væri að lýsa fyllilega starfi Mde. Chiang Kai-Shek á þessum árum, þá hafði hún ótakmarkað starfsþrek. Í tíu ár vann hún og maður hennar að því að sameina hina þrjá flokka í Kína — vonuðu þau og fylgjendur þeirra að geta komið á einingu og friði í landinu. Í öllu starfi þeirra var hún ávalt við hlið manns síns, skrifaði bréf hans, túlkaði fyrir hann og mætti með honum á fundum. Vil eg tilfæra hér aðeins eitt af mörgum dæmum um dirfsku hennar og atorku frá þeim árum.

Fréttablöð skýrðu frá því með stórum stöfum að Chiang hershöfingi hefði verið numinn á burtu af uppreisnarflokki í Kína, átti a neyða hann til að ljósta upp leyndarmáli og undirskrifa samninga, þjóðin stóð á öndinni og beið úrslita, framtíð landsins virtist hanga á þræði. Hann neitaði með öllu, beið rólegur og gerði sér litla von um að komast lífs af. Alt sem reynt var til að koma á samkomulagi hafði mistekist, hann var aðfram kominn af þreytu og hungri. Tókst honum að senda boð heim til konu

sinnar; aðeins fáein hughreystingarorð og þá bón að biðja hana að vera kyrra heima þar sem hún væri óhult en reyna ekki að komast á fund sinn. Þegar boðin komu var Mde. Chiang ferðbúin, var ferðinni heitið þangað sem maður hennar var, á fund óvina þeirra. Hún ferðaðist í loftfari; með henni fór trúnaðarvinur þeirra, W. H. Donald. Áður en hún sté út úr loftfarinu smeygði hún hlaðinni skambyssu í lófa hans og hvíslaði: "Þú sérð um að eg verði ekki tekin lifandi sem fangi ef alt annað bregst." — Hún fékk að sjá mann sinn, honum varð að orði: "Þú komin í þessa ljóna gryfju! Hvernig gastu gert þetta?" Í tvær vikur vann hún að því að fá hann lausann og loks tókst henni að tala óvinum þeirra hughvarf, og heim fór hún með hann með sér.

Loks virtist sem hið mikla verk að sameina Kína væri að takast. Systurnar þrjár mættu á opinberum stað í Chungking og þjóðin fagnaði að það væri merki þess að samvinna meðal flokkanna væri að komast á. En þá skall yfir hið ógurlega stríð við Japan, óvænt að mestu og þjóðin óundirbúin til varnar. Hinn mikilhæfi Chiang Kai-Shek fylkir liði sem bezt hann má; þjóðin gleymir öllum erjum og sameinast í vörn á móti óvinunum. Nú sameinuðu systurnar krafta sína fyllilega; Mde. Sun sem í nokkur ár hafði verið ekkja og haldið uppi leiðtoga starfi manns síns; Mde. Kung, sem á bak við sig hafði ekki einungis mikla hæfilegleika heldur líka mikið peningaafl; og Mde. Chiang Kai-Shek, fyrsta kona landsins.

Mde. Kung tók að sér umsjón á hjúkrunarstarfinu í byrjun. Hún keypti sjúkra vagna, vöruflutningsbíla og önnur tæki til að flytja hina særðu og ýmsan útbúnað. Á tveimur sólarhringum tókst henni að breyta tveimur stærstu danshöllunum í Shanghai í sjúkrahús með 300 rúmum og ótrúlega fullkomnum útbúnaði. Allan kostnaðinn við það og ótal margt fleira borgaði hún úr sínum eigin vasa. Innan skamms skipulagði hún sölu á veðbréfum og útvegaði hóp kvenna til að annast um söluna víðsvegar um landið. Hún neitaði að láta síns nafns getið í sambandi við þessar gjafir og gaf ekki leyfi til að blöðin birtu myndir af henni. Hún kvaðst hafa fengið þá skömm á öllu auglýsinga skrumi heldri kvenna sem oft draga sér allan heiðurinn en létu aðra gera alt verkið.

Enn starfar hin hógværa og kyrláta Eiling í kyrþey og heldur vörð yfir hinu umfangsmikla hjúkrunarstarfi í Kína, sem hefir orðið þjóðinni nærfelt ofurefli. Hún og systir hennar, Mde. Sun, ferðast frá einu sjúkrahúsi til annars og bæta úr þörfum, hughreysta og líkna að svo miklu leyti sem þær geta. Þær hafa látið reisa hverja stórbygginguna eftir aðra fyrir þúsundir af landflótta konum og börnum. Allar eru systurnar samtaka í að sjá um að ekki sé gengið á rétti munaðraleysingja og ekkna. Á verði standa þær fyrir réttlátum kröfum kvenna. Með því sem öðru sýna þær sína afstöðu sem kristnar konur tilheyrandi hinni

undirokuðu kvenþjóð í Kína. Þær eru að byggja hinn trausta grundvöll sem er samboðinn kenningu Krists fyrir framtíð landsins síns.

Eg reyni ekki að gefa fullkomið yfirlit yfir starf Mde. Chiang Kai-Shek í sambandi við stríðið. Sérstaklega í byrjun stríðsins þegar alt var óskipulagt var verk hennar undursamlegast. Var hún þá á ferðalögum að heita má dag og nótt til að gefa ráð og telja kjark í þjóðina. Tók hún að sér umsjá flughersins í byrjun þegar maður hennar var of önnum kafinn til að geta sint því. Þegar maður les um alt það starf skilur maður að heilsa þessarar fíngerðu og smávöxnu konu bilaði og kraftar hennar voru lamaðir í bili.

Aftur vil eg gefa aðeins eitt dæmi um fórnfýsi og dugnað hennar í björgunarstarfi. Í maí 1939 gerðu Japanar stórkostlega loftárás á borgina Chungking. Var fólk því óvant í Kína, og vanbúnaður á öllu, lítið um skýli og fólkið ekki vant við að gefa eða hlýða skipunum.

Þetta fagra vorkvöld var ótti í íbúum borgarinnar eftir tvær nýafstaðnar árásir sem voru í tiltölulega smáum stíl nóttina áður. Heyrðu þeir þá öryggis merkið þrítekið sem fullvissaði um að alt væri óhult. Strætisljós voru kveikt, þúsundir komu út á götur frá heimilum og skýlum, glaðir í bragði. En nokkrum mínútum síðar dundi yfir borgina þessi ógurlega eyðilegging. Af vangá eða vankunnátttu hafði verið gefið skakt merki. Viðvörunar merki átti að vera þrítekið þar sem í fjarska eygðist hinn stóri floti sem stefndi á borgina. Engri reglu né stjórn var hægt að koma á. Óstjórnleg hræðsla greip múginn og ástandið varð voðalegt. Chiang hershöfðingi virtist yfirkominn um stund af þeirri hugsun a skortur á eftirliti frá hans hálfu orsakaði það að rangt merki var gefið. Alla nótttina vann hann og kona hans að því að bjarga. Hún tók að sér að sjá um að koma börnunum út úr borginni. Maður getur ekki lesið frásögurnar um þennan morgun (5. maí 1939) í Chungking, án þess að vikna. Um sólaruppkomu leggur hópurinn af stað fótgangandi, yfir sex þúsund börn eru þar saman komin, meirihluti þeirra munaðarleysingjar; hópur kvenna var með þeim. Hin eldri báru þau yngstu, þau héldust í hendur, fimm og fimm, engir kveinstafir eða tár; þögul héldu þau áleiðis til hæðanna í fjarska. Það var komið fram á síðari hluta dags þegar Mde. Chiang yfirgaf rústirnar, lét keyra sig í flutningsbíl (truck) á eftir börnunum. Náði hún hópnum þar sem þau sátu við veginn og hvíldust. Tókst henni brátt að ná saman nógu mörgum farartækjum til að flytja þau það sem eftir var leiðarinnar. Bílstjórarnir gátu ekki gert sér grein fyrir hver þessi kona væri sem sagði fyrir verkum. Föt hennar voru illa útlítandi og sviðin, andlitið óhreint og hárið úfið — þeir áttuðu sig ekki á að þannig starfaði konan sem skipar hæsta sæti kvenna í Kína.

Með hópnum fylgdist hún í þeirra bráðabirgðar verustað nokkrar mílur í burtu, og yfirgaf þau ekki fyr en þolanleg rúm höfðu verið útbúin

og matur framreiddur, þá fyrst er sagt að stilling þessara kínversku barna hafi loks brostið og tárin flóðu. Og Mde. Chiang, sem sjálf er ekki móðir, grét með þessum munaðarleysingjum sínum.

Á tímabilinu frá því stríðið hófst í Kína þar til það braust út í Evrópu fluttu systurnar iðulega útvarpserindi til að ávarpa Bandaríkja þjóðina. Þar finnast einkennilega þrungin spámannleg orð, það er hrópendans hróp úr neyð að biðja hina ríku og sterku þjóð að hætta að selja Japan nokkuð það sem nota mætti til stríðsþarfa. Mde. Kung farast þannig orð:

"Við biðjum ykkur ekki að taka upp vopn okkar vegna, en í nafni alls réttlætis biðjum við ykkur aðeins að stemma stigu fyrir sölu alls þess sem Japan getur notað fyrir vopnasmíði. Þessa bón höfum við margsinnis endurtekið. **Það getur farið svo að vopnin sem þeir eru að búa til úr efninu sem þið eruð að rétta þeim verði notuð við ykkar eigin strendur eða á meginlandi ykkar kæra föðurlands."** Skyldi ekki bergmálið af orðum þessarar kínversku konu hafa hljómað yfir Pearl Harbor.

Svo vil eg skilja við systurnar þrjár, sem hafa starfað á þessum örlagaþrungnu tímum ættjarðar sinnar – árum stjórnbyltinga og margvíslegra afleiðinga hennar—árum innbyrðis ófriðar, og nú síðast í hinu ógurlega stríði við Japan. Eg skil við þær sameinaðar í hinu þýðingarmikla starfi, sem kristnir leiðtogar í einu af löndum hörmunganna. Eg sé þær í anda sameinaðar í bæn, ennþá studdar áhrifum sinna mikilhæfu trúarsterku foreldra sem nú eru bæði látin. – Sé þær vera að leggja grundvöll hins nýja Kínaveldis, því nú er von til að þjóðin verði sameinuð kristin þjóð áður en langir tímar líða.

Lokaorð mín í kvöld teki eg til láns frá Mde. Chiang Kai-Shek; hefi eg valið þau með það í huga að á meðal áheyrenda minna eru mæður með djúpum skilningi á alvöru yfirstandandi tíma. Þær af okkur sem höfum fylgt börnunum okkar úr garði finnum til þess hve lítill hluti af okkur sjálfum er eftir heima, svo stór partur fylgir þeim út í hætturnar. Leit hinna þjökuðu eftir styrk mun vera sú sama hvaða tungumál sem talað er og hver sem hörundsliturinn kann að vera.

"Hin síðustu ár," segir Mde. Chiang, "hafa gefið mér mikinn trúarlegan þroska. Nú finn eg ótakmarkaðan styrk í bæninni, sem eg ekki þekti meðan alt lék í lyndi; nú bið eg ekki eins og mér hætti við að gera áður fyr, þegar eg bað Guð að veita mér þetta eða hitt. Heldur bið eg aðeins að hann sýni mér sinn vilja og gefi mér styrk til að láta leiðast af honum. Nú finn eg svo glöggt að guðstraustið hefir lyft mér upp á sjónarhæð þar sem útsýnið er hreint og fagurt. Leiðin liggur ekki lengur eftir láglendinu þar sem fjallatindarnir eru huldir í móðu. – Eg finn styrkinn streyma til mín frá Guði sjálfum, og eg þekki hvorki áhyggjur né kvíða."

# Kvenfélagstarf á Íslandi

**Erindi flutt á fundi Kvenfélags Fyrsta lút. safnaðar í október 1930**

**af Guðrúnu Ásgeirsdóttur Johnson.**

Þegar fyrst var farið fram á það við mig, að eg segði frá einhverju á kvenfélagsfundi, sem eg hefði séð eða heyrt á ferð minni á Íslandi í sumar, var margt í huga mínum, en þó stöðvaðist hugurinn sérstaklega við eitt efni, og það var kvenfélagsstarfsemi á Íslandi. Eg var svo heppin að kynnast þeim málum ofurlítið sökum þess, að frændkonur mínar í Reykjavík eru mjög mikið við þau mál riðnar, og líka var eg þann tíma er eg dvaldi í Reykjavík samtíða fröken Halldóru Bjarnadóttur, sem er ritstjóri kvennablaðsins "Hlín" og auk þess hefir á þessum árum beitt sér mjög fyrir öll kvenfélags mál, þó sérstaklega fyrir heimilisiðnaðarmálið.

Eins og öllum þeim er kunnugt, sem fylgst hafa með starfsemi kvenna á Íslandi síðustu árin, er framsókn þeirra, framfarir og áhugi á öllum þjóðfélagsmálum svo mikill, að okkur sem vanar erum kyrstöðunni næstum sunlar, þær líta svo á, að ekkert mál sem miðar að því að þroska hugsunarháttinn og vikka sjóndeildarhringinn og bæta þjóðfélagið sé þeim óviðkomandi.

Það eru tiltölulega mjög fá ár síðan nokkur slík starfsemi hófst á Íslandi. Kvenþjóðin á Íslandi, eins og svo víða annarstaðar, þekti ekki neitt slíkt, og fannst öll opinber mál lægju langt fyrir utan sinn verkahring, þær gerðu sig svo hjartanlega ánægðar með, ef þær gátu verið aðeins bergmál mannanna sinna. En nú hafa tímarnir breyst og mennirnir með. Nú hafa kvenfélög verið mynduð í öllum sýslum landsins og víða fleiri en eitt, og þau svo myndað sambönd hvert í sínum landsfjórðungi, og svo síðast liðin vetur, það er 1930, var myndað eitt alsherjar kvenfélagasamband, og heitir það Kvenfélagasamband Ísland, og er aðalstöð þess í Reykjavík, en í það hafa öll kvenfélagasambönd gengið. Síðan kvenfélög voru mynduð hafa konurnar sýnt að þær hafa sál og líka þrótt til að hagnýta sér hana.

Málin eru mörg sem kvenfélögin hafa tekið upp á sína dagskrá og man eg aðeins eftir nokkrum þeirra, og vil eg hér telja upp, þau sem eg man eftir.

**I. Hússtjórnarfræðslumál:** Tilgangurinn er, að félagið vill stuðla að því, að öllum konum gefist kostur á húsmæðra og heimilisiðnaðar fræðslu, og kensla í handavinnu og matreiðlu verði gerð að skyldunámsgrein í öllum barnaskólum landsins, og að nægilega margir skólar

verði settir upp, sem hafi á hendi húsmæðra og heimilisiðnaðarfræðslu, einnig komi upp kenslukonuskóla í þeim efnum, og styttri námskeið haldin þar sem ástæða þykir til.

**II. Heimilisiðnaðarmál:** Að félagið stuðli að því að heimilisiðnaður nái sem mestri fullkomnun, og heimilisiðnaður verði notaður sem mest í landinu og að komið verði upp útsölustöðum fyrir heimilisiðnað.

**III. Spítalamál:** Spítalamálið er eitt af stórmálum kvenþjóðarinnar á Íslandi. Fyrir örfáum árum mynduðu konur í Reykjavík sjóð, mun hafa verið 1915, sem svo öll kvenfélög landsins tóku þátt í að auka og margfalda, og fyrir þeirra mikla áhuga og framkvæmdir er nú Landspítalinn reistur, og hefir nú verið opnaður til starfrækslu. Í mörg undanfarin ár hefir enginn spítali verið í Reykjavík nema Katólski Spítalinn, sem hefir verið rekinn af útlendingum og útlendu fé, þangað til að þessu nauðsynjamáli var hrundið á stað af þessum framkvæmdarsömu konum. Þær afhentu sjóðinn, sem þær voru búnar að auka og ávaxta uppi 300,000 krónur, með þeim skilyrðum að búið yrði að reysa bygginguna árið 1930. Þó ríkissjóður hafi lagt mikið fé til fyrirtækisins, þá voru það konurnar sem hrundu málinu á stað (þó hefi eg heyrt að stjórnin hafi þakkað þeim það með því að visa fulltrúa kvenna úr Spítalanefndinni og ekki boðið konum að vera viðstöddum þegar Spítalinn var formlega opnaður) auk þessarar upphæðar sem hér að ofan er skyrt frá, mynduðu konur — 1916 — minningarsjóð sem nú er 180,000 kr. sem nú er kallaður Minningarsjóður Landspítalans. Þessi sjóður á að vera til styrktar fátæklingum. Það er á sumum sjúkrahúsum, sérstaklega í Evrópu, að dyrum þeirra er lokað fyrir fátæklingum. Konurnar á Íslandi hafa nú bætt úr þeirri hættu, með því að rétta slíku fólki hjálparhönd. Fyrsta gjöfin í þennan Minningarsjóð voru 10 kr. sem gefnar voru í minningu um gamlan og góðann borgara. Ættingjar hans höfðu afbeðið kransa eða blóm, og voru gefnar alls við þetta tækifæri 62 kr. Var þá þegar afráðið að gefa út minningarspöld og auglýsa þau í sambandi við jarðarfarir. Þessi sjóður sem haldinn var algerlega aðgreindum frá öðrum tekjum spítalasjóðsins, jókst svo ótrúlega fljótt að nú er hann 180,000 kr. Skipulagsskrá fyrir sjóðinn var samin, og samþykt af konungi 26. september 1930, og samkvæmt henni á að leggja helming vaxta við höfuðstólinn þar til sjóðurinn er orðinn 250,000 kr. Konunum hefir þótt það tryggast að sjá sjálfar fyrir geymslu peninganna og er nú mestur hluti þeirra í söfnunarsjóði

**IV. Umferðarkensla í garðyrkju:** Félögin hafa komið á stað umferðarkenslu í garðyrkju. Hugmyndin er sú að senda stúlku eða stúlkur um sveitirnar til að kenna að undirbúa matjurtagarða undir garðávexti og meðferð á plöntum og svo hagnýting garðmatar. Reynslan hefir

sýnt að með réttri meðferð og alúð má rækta á Íslandi hér um bil alla garðávexti sem hér vaxa.

V. **Heilbrigðismál:** Þær hafa komið á hjá sér fyrirlestrum um þau efni, svo sem mataræði og réttri samsetning fæðunnar. Einnig hafa þær ákveðið að vinna að því, að eftirlit sé haft á að vandað sé sem bezt kaup á útlendum matvælum, sérstaklega kornvörum og hlynna að því að ómalaður rúgur sé keyptur en ekki rúgmjöl, og hann sé svo malaður í landinu, og smá myllum sé komið upp í því skini.

VI. **Umbætur á eldhúsum:** Þær vilja vinna að því, að gerðar séu umbætur á eldhúsum á landinu, að þau séu gerð bæði fullkomnari og þægilegri að vinna í þeim svo hægt sé að koma verkinu áfram á helmingi styttri tíma en áður. Þær hafa fengið byggingameistara til að halda fyrirlestra um þau efni, og hafa gefið verðlaun fyrir bezt gerða uppdrætti í því sambandi, einnig af bezt gerðum húsgögnum.

VII. **Barnaheimili:** Þær tala nú mikið um að koma upp barnaheimilum.

VIII. **Sumarbústaðir** fyrir börn uppi í sveit, sérstaklega þau sem ódæl eru og ófyrirleitin heima fyrir.

IX. **Mæðrastyrks mál.**

X. **Heimilisiðnaðarsýning:** Sambandið hefir komið á sýningum á heimilisiðnaði, hvert í sinum landsfjórðungi, og hafa þær stundum í sambandi við ársfundi sína, og í sumar var komið á sameiginlegri sýningu í Reykjavík fyrir allar sýslur landsins. Þessi sýning var haldin í Mentaskólanum bæði uppi og niðri. Hún var opnuð um miðjan júní 1930 og höfðu konurnar umsjón yfir henni, bæði með að koma henni upp og svo eftir að hún var opnuð. Eg kom nokkrum sinnum þar inn og hafði eg mikla unun af að ganga þar um og athuga iðnaðinn. Eg gat ekki annað en dáðst að vinnubrögðunum, og í raun og veru öllu fyrirkomulegi, þótt sumt hefði betur mátt fara, en aðallega var það þá því að kenna að húsplássið var svo takmarkað. Hver sýsla landsins var þar út af fyrir sig, og mátti naumast á milli sjá hver þeirra hefði fallegastar vörur að sýna, þótt í fljótu bragði að Reykjavíkurdeildin virtist vera glæsilegust. Í öllum deildunum var tóvinnan mest áberandi, og var auðséð að mikil alúð er lögð við að vanda til hennar eins og bezt má vera. Nú er regluleg viðreisnar öld í allri tóvinnu á Íslandi, og nú er farið að endurreisa gamla glitvefnaðinn sem næstum var gleymdur og spjaldvefnaðinn og salúnsvefnaðinn. Nú er farið að vefa aftur áklæði eins og þau voru ofin í gamla daga, þótt ekki séu nú brúkuð yfir söðlum. Nú eru þau brúkuð til prýðis á veggjum í viðhafnarstofum. Eg sá undursamlegan vefnað af öllu tagi. Kvenfólk vefur nú alskonar dúka, handklæði, borðdúka, lök, og gluggatjöld, auðvitað er brúkað í

það útlent garn svo sem hörgarn og tvistur. Eg sá svo prýðilega ofna borðdúka og gluggatjöld að mér virtist það þola fyllilega samanburð við það sem sézt hér bezt í verzlunum. Gluggatjöldin eru eins áferðafalleg og "voile" með alskonar munstrum. Það mundi útheimta meiri tíma en eg hefi hér yfir að ráða að lýsa öllu sem eg sá á sýningunni, því þar voru allar tegundir af heimilisiðnaði, ullarvinna, prjónles, vefnaður, alskonar útskurður úr beini og trjátegundum, útsaumur, hekl, togvinna, hrosshársvinna. Eitt sá eg þar sem eg hef ekki áður séð, og sem vakti mikla eftirtekt, það voru kvenhattar sem kona norður í Þingeyjarsýslu hafði búið til og brugðið úr taglhári, þeir voru með seinasta tísku lagi, og svo haglega gerðir, að það var hreinasta list. Marga langaði til að eignast þessa hatta, en kvenfólk á Íslandi virðist meta meir sína handavinnu, en kynsystur þeirra hér vestra, svo verðið var nokkuð hátt, og seinast þegar eg vissi voru þeir óseldir.

Annað var þar sem mig langar til að minnast á, og hefði eg haft 1500 kr. til að leggja út fyrir beinan óþarfa, hefði eg keypt það frekar en nokkuð annað sem eg sá á sýningunni bara af því eg hafði svo gaman af því, þetta var veggtjald, "Kveldvaka í Sveit". Uppdráttinn hafði listamaðurinn Ríkarður Jónsson dregið upp en kona á Ísafirði saumað. Þetta var baðstofa í sveit, að kveldi til þegar alt heimilisfólkið er sezt við vinnu sína, fólkið situr á rúmum og öðrum sætum, konur spinna, og prjóna og sauma, menn spinna hrosshár bregða gjarðir, flétta reipi og kemba, smalahundurinn liggur fram á lappir sínar, kötturinn leikur sér á gólfinu með bandhnykil, maður situr í miðjum hópnum og heldur á bók og er annaðhvort að lesa sögu eða að kveða rimur. Þetta var saumað í Íslenskt efni með heimalituðu bandi og hári. Litirnir voru 206 sem hún hafði sjálf litað heima úr alskonar jurtum og voru litbrigðin þarna svo mjúk og falleg sem framast mátti verða. Það var merkilegt að sjá, hversu vel henni hafði tekist að sauma fólkið sjálft öll andlitin voru mismunandi, ekkert líkt hvað öðru, og það virtist næstum, að henni hefði tekist að koma lífi í svipinn á fólkinu. Rokkur hafði verið hengdur upp undir sperruna til þess að hann væri ekki fyrir, þegar hann var ekki í brúki. Þessi hlutur átti að seljast á 1500 kr. en mér stóð hann til boða áður en eg fór fyrir 1200 kr. en eg hafnaði því af eðlilegum ástæðum.

Þetta er nú orðið nokkuð langt mál, en margt fleira mætti telja sem konur hafa hrundið á stað og komið í framkvæmd til að bæta þjóðfélagið, svo sem hressingarhælið í Kopavogi og Kristnes— hælið á Norðurlandi. Áður en eg hætti má eg til að minnast á Landsfund kvenna sem haldinn var í Reykjavík strax eftir hátíðina. Landsþing kvenna á að haldast annað hvert ár samkvæmt lögum sem samin voru í febrúar 1930, þegar kvenfélagasambandið var myndað. Landsfundur kvenna hafði verið síðast haldinn á Akureyri 1926, en svo aftur nú í sumar, og

stóð yfir 4-10. júlí að báðum þeim dögum meðtöldum og lögðu konurnar það á sig eftir alt hátíðarstappið að staðnæmast í Reykjavík til að sitja þessa fundi. Á þessum fundi voru fulltrúar frá öllum sýslum landsins. Þing þetta var haldið í Alþingishúsinu í sal neðri deildar Alþingis og voru mættir þarna rúmir 30 fulltrúar frá öllum landsfjórðungum. Byrjað var með messu í Fríkirkjunni og prédikaði séra Árni Sigurðsson sem er prestur í þeirri kirkju, hann hélt undur fagra ræðu og bað heitt fyrir fundinum og störfum hans. Frú Bríet Bjarnhéðinsdóttir stjórnaði fundinum. Hún hafði upphaflega hrundið á stað kvenréttinda hreyfingunni og verið mjög framkvæmdarsöm í öllum kvenfélagsmálum, en er nú búin að lifa sitt fegursta og má kallast gengin í barndóm enda orðin háöldruð. Í þessum sal, sem er afar stór og fallegur, hagar svoleiðis til, að fyrir stafni er sæti forseta og borð og stólar sitt til hverrar hliðar forseta, og þar sitja skrifarar sem ætlast er til að séu tveir. En til annarar handar dálítið út á gólfinu stendur stóll sem líkist efripart af prédikunar stól, þar er ætlast til að þeir standi sem vilja taka til máls, svo eru stólaraðir beggja megin í salnum eftir því sem rúm leyfir. Uppi á loftum eru áheyrendapallar, sem þeir geta setið sem forvitni hafa á því sem þarna fer fram, og í þetta skifti var eg ein af þeim. Þegar eg settist þarna og lítaðist um, var eg að hugsa hvort nokkur mundi nú fást til að standa upp og ganga upp í þennan stól til að tala. Eg þurti ekki lengi að athuga það, því þær gengu þangað hver af annari og töluðu hiklaust um hvert mál sem tekið var fyrir, og virtist mér flestar þeirra vera bæði athugular og mælskar. Undirbúnar gátu þær naumast verið, því þær voru jafn góðar seinast eins og í byrjun, og það duldist engum að þær höfðu allar hugsað um þau mál sem fyrir lágu og höfðu áhuga fyrir þeim. Ósjálfrátt komu mér í hug kvenfélögin hér vestra.

Ó hvað það væri gaman að geta komið svona fram, og hver er ástæðan? að við hér vestra stöndum á baki kynsystrum vorum heima á Íslandi í þessum efnum, mér dettur ekki í hug að imynda mér að konur hér séu ver af Guði gefnar, því sami er stofninn og skilyrðin hér ekki síður til að þroskast, og í félögum höfum við staðið hátt uppi hálfa öld. Eg velti þessu fyrir mér aftur og fram og eina skynsamlega ástæðan sem eg fann fyrir þessu var sú, að flest kvenfélög í okkar Íslenzka félagsskap eru safnaðar kvenfélög, og þau hafa flest sett sér eitt takmark og það takmark er að afla peninga fyrir þá söfnuði sem þau tilheyra. Þetta var eðlilegt í byrjun safnaðarlífsins því fátæktin var svo mikil á frumbýlings árunum, en því miður hefir þetta hérumbil fram á þennan dag skygt á alt annað. En þetta hvorki auðgar sálina eða vikkar sjóndeildarhringinn. Eg er nú orðin nokkuð langorð, og tíminn leyfir ekki að segja frá fleiru, og bið eg ykkur að fyrirgefa.

Eins og erindi þetta ber með sér, er það samið og flutt, fyrir nærri þrettán árum, og á því aðeins við félagsstarfsemi íslenzkra kvenna upp

til þess tíma. En þær hafa áreiðanlega ekki verið aðgerðarlausar síðan, það er öðru nær. Þær hafa áreiðanlega verið mjög framkvæmdarsamar, og gefst Árdísi vonandi tækifæri til að skýra frá því síðar.

---

# The Challenge of Our Foremothers

**Delivered at the Convention of the Lutheran Women's League at Winnipeg, July 2nd, 1943.**

**by Lilia Eylands**

History records a great deal about our pioneer forefathers. Much less, in fact, little is written about our foremothers. Surely behind each forefather there was a woman's resolution and loyalty that inspired that brave man. In the present trying and difficult times we may well stop to ask what some of the characteristics of these stalwart and brave women were, and when we have done so, we may also well ask ourselves the question; are we following in their footsteps, and displaying the same courage as we face the manifold problems of today?

Our foremothers had fortitude. How well we remember the story of the Pilgrims. Their bravery and courage is traditional. Of the one hundred and two passengers who braved the deep sea in the "Mayflower" in the year 1620, twenty-nine were women. They were as strong hearted for the great adventure as their husbands and brothers. During the first winter and spring nearly half their number, including fifteen of the twenty nine women, had perished from disease, insufficient food and the rigors of winter weather. Yet, when in April the "Mayflower" was about to return to England and free passage was offered aboard, there was not a single acceptance. Instead, these brave Pilgrim foremothers fell to the grim task with their husbands of seeding over the many graves of their loved ones lest the Indians who might come there should see their weakness by the great mortality. Having set their hands to the plow, these Foremothers would not look back. They were the equal of the men in fortitude. How can we talk about the Pilgrims without mention of the charming maiden Priscilla, immortalized by Longfellow in one of his best known poems "The Courtship of Miles Standish". Her picture comes clearly to our minds, and the words of the poet rush to our lips as John Alden went on his errand—'Heard as he drew near the door, the musical voice of Priscilla,

Singing the hundredth Psalm, the grand old Puritan anthem, Music that Luther sang to the sacred words of the psalmist, Full of the breath of the Lord Consoling and comforting many. Then as he opened the door, he beheld the form of the maiden Seated beside her wheel, and the carded wool like a snowdrift Piled at her knee, her white hands feeding the ravenous spindle, While with her foot on the treadle, She guided the wheel in its motion'. Yes, these women guided not only the wheel of the spindle—but they guided as well the wheel of destiny, the freedom and fortune in the building of a great nation.

Discipline in the school of hardship shaped the character of our foremothers. We of today scarcely know the meaning of the words 'hardship' and 'work'—as compared with them. They worked hard. Without a doubt many worked themselves to death. Scenes like that of John Alden and Priscilla Mullins have thrown a screen of romance about the period, but behind it all our vision must include endless drudgery. Household cares were not lightened by the aids that we enjoy today. No washing machines, no electric irons, no gas or electric stoves, no vacuum cleaners or a telephone to call the grocer for the next meal's supply. If one could take a magic broom and sweep out the household appliances invented since the days of Priscilla Alden our own homes would seem empty as a beggar's garret.

Our foremothers were willing to be transplanted from familiar to unfamiliar surroundings. We of today so often become staid and fearful of change, but the willingness of our foremothers to move out and on, adds to their heroism. As a rule women are more vitally attached to their homes than are men. Their hearts are linked not merely to landscapes and familiar customs, but to the very walls of their houses, the articles of furniture, the kitchen utensils and all the little unimportant things, that in reality make "home". Transplanting to new scenes is harder for a woman than a man. Consider then the willingness of these foremothers to be uprooted from their hallowed abodes. We may imagine that there were hours of deep but silent grief as they faced the voyage ahead and the uncertainties of life in a new country. But their courage was undaunted in the firm belief that the new world would bring them greater opportunities and possibilities to themselves and their descendants.

Our foremothers were strong mentally and physically. Despite hardship, disease and mortality, they had vigorous physique. They had cut loose from needless worries, and their chief concerns became the elemental problems of food and shelter. They did not receive much coddling. In this connection I would like to tell you a bit about the first white woman in the west who came to stay—as related in the book;

"Women of the Red River" by Healy. Many of you have read there, I know, about Marie Anne Lagimoniere who arrived in the west in the summer of 1807. She accompanied her husband in one of the canoes of a brigade which travelled by the fur traders route from the St. Lawrence; a journey of 2,000 miles. Held as family memories by their descendants, the recollections of the first Selkirk settlers are cherished tradition of fortitude and unconquerable faith. What the women suffered can be realized only in part by the pioneer women of later times. The bloodshed and devastation of the fur trade warfare and other disasters more than once threatened to destroy their first settlement bringing death and extreme suffering. Again and again what seemed a lost cause on the banks of the Red River was saved by the unrecorded fortitude of men and women whose hearts were strong to endure against calamities. On Jan. 6, 1808, the first child of the Lagimonier's was born in a crude wigwam. At the end of that winter they started out for the Northwest; Marie carrying her infant in a moss bag, Indian fashion. They came within sight of the Rocky Mountains where he spent the winters seasons trapping and hunting; each spring returning to the plains Abbe Dugas who wrote the story of Marie's life tells the breath taking incident about her when she once was riding a horse that was a trained buffalo runner, and came in sight of a herd of buffalo grazing. As soon as her horse caught sight of the buffalo he took the bit in his teeth and galloped after the herd without thought of his burden. Marie's baby hung in a bag on one side of the horse and she expected every moment that she and the child would be dashed to the ground. She commended herself to God and clung with all her strength to the horse's mane. She did not know how long her mad career continued, she only knew that it was horribly long. When her husband succeeded in stopping the flight by cutting across her horse's path she was on the point of succumbing. They pitched their tent near some trees, and a few hours after that furious race Madame Lagimoniere gave birth to her second child—whom they nicknamed Laprairie. One day in the spring following the birth of Laprairie, the child was stolen by the wife of a Blackfeet chief who made off with him on horseback. Marie Anne mounted a horse and followed. After a race of many miles she caught her and regained her child; the Indian woman pretending she had carried off the child only to play with him. I am sure we can well imagine the agony Marie Anne passed through during this chase. Later on the chief husband of this same woman tried to trade his horse for the little Laprairie Lagimoniere. When his mother refused he brought two horses thinking she was not content with one. When she still emphatically refused, the Indian said: "Very well, take all my horses and one of my children". "No," she said, "Never", and taking the child in her arms, she wept. The Indian chief apparently was touched by her

tears and went on his way. Such were the adventures of our foremothers and fathers of the early days. Their staunchness and sustaining courage preserved British influence in the West and helped to create a nation.

But while speaking about our foremothers my remarks would seem incomplete indeed were I to leave out that most cherished woman's name in Canadian history; that of Laura Ingersoll Secord, who took her fate in her hands and went forth with the inspiration which comes when duty calls. You know the story well, of how she overheard the conversation of a party of enemy American officers billeted in her home about an attack they had planned against the Canadians at a strategic point. "That position once captured" said they, "Upper Canada is ours." After consulting her husband, who was ill in bed suffering from battle wounds she expressed her intention of trying to warn their own men.

She was well aware of the difficulties which lay before her. Yet, go, she must. To avoid the main road, her way led through swamps and woods infested with rattle snakes, wild animals and worst of all savage Indians under the American command. All day she trudged on through the heat of a late June day crossing and recrossing streams torn by briars and brambles and only her dauntless courage kept her from complete exhaustion. When she had almost reached her destination she suddenly came upon an Indian encampment Terrified as she was by the yelling savages as they caught sight of her she did not lose her presence of mind. She managed at last by means of signs to convince the chief that she had an important message for the white commander and was allowed to proceed. Her warning came in time for the Canadian forces to make their preparations, and though they were only a handful compared with the enemy, their leader through his resourcefulness stationed these few men and the Indian allies in the woods at such positions as to surprise the invaders—who surrendered in the belief that they were outnumbered and wholly at their mercy. Laura Secord returned to her home with no words of pride or triumph but happy in the knowledge that her sacred duty had been performed.

Then the last but foremost characteristic of these our foremothers was their belief in God. Without it nothing could have driven them far from home across stormy oceans to a country of endless wilderness. What kept them calm and serene in the face of danger and difficulty was the sense of God's loving presence. In this connection I would would like to centre my concluding remarks around our spiritual foremother—one whom most of you have heard much more about than even I—because in these very surroundings she sojourned and planted the seed which we are now harvesting. I refer to the late Frú Lára Bjarnason. She was born into an aristocratic family in Iceland and reared

in a home of culture and refinement. Three years after her marriage to Jón Bjarnason she emigrated with him and shortly thereafter—or in the year 1877 they came to the settlement of Gimli in its primitive and pioneer stage. He came to be their pastor and leader with her by his side to share gladly and willingly the privations, poverty and many hardships of those early days. Their first home was in a tiny house with friends who managed to make room for them—and it is said that every time it rained, water and soot ran into their bed. Frú Lára did not despair. As soon as Spring came she planted flowers around the hut and in many other ways made the surroundings more homelike. Later as their field of activity widened, her ability and her talents manifested themselves in numerous activities such as Sunday School work, Choral singing, as well as being busily engaged in social and charitable organizations. She organized the Ladies Aid of this church. All these activities and her many sacrifices were prompted by her faith and her unswerving loyalty to the cause to which she and her husband had dedicated their lives.

I have now tried to hold up for you a few pictures of our foremothers both in remote and recent times. I have shown the qualities of mind and heart which made them great and caused them to become, each in her own sphere, a blessing to others. These were the qualities: steadfastness, strength, vision, courage, loyalty and faith. What is the message of these foremothers to us in our day? It is true, the conditions under which we live are vastly different from those which they faced. We are no longer pioneers in the same sense as they were. We have an abundance of comforts and conveniences of which they had never heard. Does that mean that we need not bother ourselves about their history, or that we can learn nothing from their example? Certainly not. Although the conditions they faced were different, the world we face has certainly not advanced very far morally or spiritually. Our world is being shaken with such violence, and is and will be facing such confusion, that if the true values of life are to be preserved in the period of reconstruction that we hope shall soon come, the steadying hand of the mothers and matrons of the land, and their moral courage, will be sorely needed to bind up the wounds of the broken hearted, and to guide the feet of the young in the way in which they should walk. We women of today have much to learn from our foremothers, and happy are we, if we can translate into activity in these dark days, and in the darkness to come, the qualities of mind and heart which characterized them.

In closing, I shall point out three traits of character which are immortal, and applicable in every age, and particularly in our own age. We need courage to face the future. The hearts of many people are

failing them for fear these days. This fear has many causes, and manifests itself in many ways. There is the fear which grows out of despair. We had hoped that the world was in a fair way of spiritual and moral progress; that people were no longer capable of such inhumanity to each other as has now become apparent. The house of civilization seems to be crumbling all about us, and we ask ourselves over and over: is this world unspeakably wicked? Shall we be compelled to slide back into barbarism and bloodshed every few years? But we must not forget that in spite of the worst that man can do, he cannot destroy goodness or dethrone God.

We need courage to face the future knowing that no real values can perish in this or any other conflagration so long as there are women in the land who hold up the torch of truth, and to do this is our supreme duty and God given privilege.

If we have courage, we will also have loyalty. We must be loyal to our church, the very foremother of the free institutions for which our boys are fighting on many fronts to preserve. We must maintain it and keep it, ready to serve them when they return to civilian life. And what I have said about the church applies equally to another fundamental institution among us, the 'home'. The home life is being greatly and adversely affected by the war. This is our peculiar realm. Certainly it is our duty to do whatever lies within our power to preserve the sanctity and the stability of the home. In this respect we can learn many valuable lessons from our foremothers.

The final trait of character which we must preserve in the midst of all the confusion is faith. Faith in God; in the cause which has been entrusted to us. The same faith which challenged the devotion of our foremothers. Faith in a better world where love shall be the ruling motive in the minds of men. This is especially necessary in these days when hatred holds sway in the hearts of men. If any reconstruction worthy of the name is to take place in the world after the war, that reconstruction must be based on understanding and good will, the source of which is love. That is the challenge of our foremothers and a perpetual challenge to womankind.

They talk about a woman's sphere
As though it had a limit;
There's not a place in earth or heaven,
There's not a task to mankind given,
There's not a blessing or a woe,
There's not a whispered "Yes" or "No",
There's not a life, or death, or birth,
That has a feather's weight of worth
Without a woman in it."

# Námskeið Bandalagsins

* * *

Það er mér ánægja að verða við tilmælum ritstjóra Árdísar að skrifa stutta grein um ofangreint efni, því þetta starf Bandalagsins á það skilið að um það sé ritað í blaðinu.

Eins og kunnugt er hefir Bandalagið starfrækt nú í fjögur ár námskeið í kristilegri fræðslu fyrir ungmenni. Flestar hérlendar kirkjudeildir halda uppi þesskonar starfsemi með góðum árangri. Almenningi duldist því ekki hve mikilvægt og tímabært var þetta fyrirtæki meðal Íslendinga.

Síðast liðið sumar var námskeiðið haldið í United Church Camp við Rock Lake, en fyrri árin í Canadian Sunday School Mission Camp fyrir norðan Gimli við Winnipegvatn. Leigan þar hefir verið afar há, $12 á dag, og plássið aðeins fáanlegt á óhentugum tíma sumarsins. Einnig var mjög óvíst um það hvort þessi staður stæði til boða ár frá ári.

Það var því auðséð að framtíðarstarf þessa mikilvæga fyrirtækis varð bezt trygt með því að Bandalagið gæti sem fyrst eignast sinn eigin "Camp". Á þingi 1941 var stofnsettur ofurlítill sjóður með þeirri hugmynd að reyna að byggja því líkan sumarbústað. Einnig var kosin nefnd til að líta eftir landspildu meðfram Winnipegvatni milli Árnes og Winnipeg Beach; var nefndinni gefin full heimild til að kaupa blett sem álitinn væri hentugur.

Á þessu svæði er nú mjög lítið eftir af landi til sölu sem er vel til fallið fyrir hinn umrædda camp. Eftir tveggja ára erfitt og vandasamt starf hefir nefndinni hepnast að festa kaup í fimm ekrum af landi tvær mílur suður af Árnesi. Er þetta eini bletturinn sem fullnægir þeim skilyrðum sem nefndin hafði sett sér, en þau voru aðallega að plássið væri: 1. Á þessu tiltekna svæði, ekki of langt frá Gimli né heldur of nálægt þeim fjölmenna baðstað. 2. Aðlaðandi sumardvalarstaður, fjaran slétt og vatnsbotninn hvorki grýttur né leirugur. 3. Með því verði, sem Bandalagið sæi sér fært að greiða.

Lengra á veg er þetta mál ekki komið og má segja að þetta sé mjög viðunanleg byrjun á ekki lengri tíma.

Í þessari stuttu grein verður engin tilraun gerð til að lýsa námskeiðs starfinu; nokkrar ágætar greinar hafa þegar verið ritaðar um þá hlið málsins. En það er ekki úr vegi á þessu stigi málsins að nema staðar og athuga framtíðar horfurnar og leitast við að finna svar við nokkrum spurningum. 1. Eru líkur til þess að starfið nái tilgangi sínum? 2. Hef-

ir starfið enn sem komið er borið nokkurn ávöxt? 3. Er líklegt að íslenzkum almenningi finnist þessi viðleitni Bandalagsins til eflingar kristindóms- og menningarmálum svo mikilsvarðandi starf að hann vilji leggja fram fé og krafta því til stuðnings?



Myndin sýnir að nokkru strandlengjuna á hinu nýkeypta sumarskólastæði við Winnipegvatn. Óvíða með vatninu mun betri fjara, né hentugri til sunds eða leikja.

---

Svarið við fyrstu spurningunni er á valdi hvers einstaklings sem hugsar alvarlega um andlega velferð ungdómsins, því sá hinn sami verður að lána sína eigin krafta svo að hugsjónin verði að virkileika. Flestum mun finnast of snemt að svara næstu spurningu en þó gætum við sem um langt skeið höfum starfað með okkar íslenzku unglingum gefið mjög jákvætt svar við henni, og tíminn mun leiða í ljós að það er rétt ályktað.

Til þess að svara að nokkru leyti síðasta atriðinu vil eg leyfa mér að skýra frá ýmsu sem varpar ljósi yfir afstöðu fólks til þessa máls.

Frá byrjun hefir þetta stórhuga fyrirtæki B. L. K. útheimt mikla krafta og fórnfærslu af þeim sem unnið hafa að námskeiðinu ár eftir ár. Erfiðleikar við starfrækslu skólans hafa aukist vegna alls konar hamlana sem stríðið hefir haft í för með sér. Í sumar er leið blöstu við yfirgnæfanlegir örðugleikar en fyrir ötula frammistöðu og úrræðasemi þeirra sem unnu að málinu, var mögulegt að halda námskeiðið með ágætum árangri.

Í sumar sá Bandalagið sér því miður ekki fært að starfrækja skólann. En þó undarlegt megi virðast hafði þetta óvænta afleiðing sem í stað þess að hnekkja starfinu verður áreiðanlega því til eflingar. Ekki einungis prestar og leiðtogar hófu upp raust sína og kváðu starfið alveg ómissandi, þar að auk heyrðust nýjar raddir úr ýmsum áttum sem áður höfðu ekki látið til sín heyra; sögðu þær skýrt og skorinort: "Námskeiðsstarfið má ekki leggjast niður, **hvað sem það kostar;** það er fullvissa okkar að það verði til mikillar blessunar."

Svo í stað þess a draga úr áhuga fólks hefir einmitt vaknað upp nýr áhugi hjá ýmsum utan Bandalagsins. Fastari ásetningur og víðtækari skilningur hefir skapast í hugum þeirra sem áður voru starfinu lítt kunnir.

Bandalagið hefir ekki leitað til almennings og beðið um fjárstyrk fyrir stofnun hins fyrirhugaða sumarskóla en all margar vinagjafir hafa borist í hinn nýstofnaða sjóð og þeim hafa fylgt blessunaróskir, þakklæti og sterk áeggjan um að flýta þessu starfi sem unt sé. Með peningasendingu lengst sunnan frá Bandaríkjunum voru m.a. þessi orð: "Við viljum styrkja þetta mikla, góða starf sem B. L. K. hefir tekið að sér að gera." Í öðru bréfi er ritað: "Eg er glöð að geta orðið til hjálpar við þetta afar áríðandi verk sem ætti að vera áhugamál öllum Íslendingum sem nokkurn áhuga hafa fyrir kristilegu starfi. Það er rangt hugsað að við séum að gera eitthvað fyrir B. L. K. með því að styrkja þetta mál, við gerum það fyrir okkur sjálf, og Bandalagið er með dugnaði og hetjuskap að vinna okkar verk; Guð blessi starfið."

Hugsunin sem er á bak við þessar gjafir er svo einlæg og alúðleg að það væri ómögulegt að ímynda sér að nokkur þvingunar tilfinning hafi komist þar að. Kvenfélögin hafa sent stórar gjafir og góðan hug; tvær Winnipeg konur með sönnum íslenzkum höfðingskap stóðust allan kostnað við "Silver Tea" til arðs fyrir sjóðinn; ungur piltur sem sótt hafði námskeiðið í tvö ár sendi rausnarlega gjöf því til stuðnings. Kirkjufélagið tók byggingar hugmynd Bandalagsins með fögnuði og gaf loforð fyrir $100 í sjóðinn.

Vegsummerki þessi bera vott um það að almenningur finnur þörfina fyrir vakning og uppfræðslu í kristilegum efnum og vill af fremsta megni styðja framgang þessa máls. Enda mun verða þörf mikils þolgæðis og allra okkar sameinuðu krafta því hin fyrirhugaða sumarskóla bygging er stórt verk og ekki unnið í einni svipan.

Bandalagið þakkar af alhug allan þann styrk og góðvilja sem almenningur hefir þegar látið þessu málefni í té og vonar fastlega að það nái farsællega fram að ganga, beri góðan ávöxt og verði til blessunar í þjóðlífi okkar Vestur-Íslendinga.

**Hólmfríður Daníelson**

# SANTAL TRÚBOÐIÐ

Eftir séra Valdimar J. Eylands

Mér er ánægja að því að verða við tilmælum ritstjóra **Árdísar** um að gera stutta grein fyrir sögu trúboðshreyfingarinnar í Santal héraðinu á Indlandi. Tveir skólabræður mínir frá norska prestaskólanum í St. Paul, Minnesota, fóru þangað er þeir höfðu lokið námi, og hafa dvalið þar síðan eftir því eg bezt veit. Nýlega hefir fólk vort kynst trúboðshjónum sem komu þaðan nýlega, og heyrt þau segja frá starfi sínu, einkum á meðal hinna holdsveiku. Eru það þau séra Victor Bagger og frú hans, sem nú um hríð hafa þjónað dönsku lútersku kirkjunni í Winnipeg. Eru þau hjón bæði dönsk að uppruna og mentuð þar í landi. Mr. Bagger tók prestsvígslu í Kaupmannahöfn, og fór þaðan rakleitt suður á trúboðssvæði þetta; einnig hafði hann fengið töluverða læknismentun, en kona hans var hjúkrunarkona að mentun. Um sextán ára skeið dvöldu þau í Santal, og í þeim hluta landsins sem sérstaklega er afmarkaður fyrir holdsveikt fólk. Á dvalartíð þeirra þar reis þar upp myndarlegt hæli fyrir þetta ólánssama fólk, þar sem því er veitt öll möguleg hjálp sem læknavísindin kunna tök á til að stemma stigu fyrir, og lækna ef unt er, þennan hræðilega sjúkdóm. Virðist nú mikill og góður árangur fenginn í þessu efni, og alls ekki vonlaust um að holdsveikir menn geti hlotið fulla heilsubót ef þeir leita hjálpar í tíma. Um þetta merkilega og fróðlega efni hafa þau hjónin flutt mörg athyglisverð erindi síðan þau komu til Winnipeg fyrir rúmu ári síðan. En þeim var ráðlagt að hverfa frá Indlandi eftir innrás Þjóðverja í Danmörku. Mun þetta hafa stafað af því að þau eru danskir þegnar. En hvernig sem það atvikaðist var þeim leyfð landvist í Canada, þó það sé einnig að vissu leyti brezkt land. Svo virðist að það hefði verið með öllu óhætt að lofa þeim að halda áfram líknarstarfi sínu á Indlandi. Þau bera stjórn Breta þar í landi á allan hátt hina beztu sögu, en láta stjórnmál annars afskiftalaus. Þessi hjón hafa skapað sér virðingu og hlýhug þeirra Íslendinga sem hafa heyrt þau flytja mál sitt. Var það því einkar tilhlýðilegt er Bandalag lúterskra kvenna bauð Mrs. Bagger að flytja erindi á nýafstöðnu ársþingi sínu. Við það tækifæri flutti frúin blaðalaust hálf tíma erindi og rak hvergi í vörðurnar. Má það teljast vel gert af konu sem mælir á erlenda og ótama tungu. En Santal trúboðar verða að vera næstum sérfræðingar í tungumálaþekkingu. Aðal tunga þeirra Santal manna, sem hjónin þurftu að nota í starfi sínu er talin einhver hin erfiðasta tunga til náms, t. d. er sagt að hún hafi tuttugu föll nafnorða. Hver sem er leikinn í að tala slíkt beygingamál, mun telja enska tungu auðlærða.

Hundrað og fimtíu mílur norður af borginni Calcutta á Indlandi, ekki allfjarri bakdyrum hins víðræmda Burma vegar, er há slétta allstór er nefnist Santal hérað. Íbúar þessa héraðs eru taldir um 350 þúsundir

að tölu, og nefnast á ensku máli **Santals.** Þeir eru líkir Hindúum að útliti, en þó af öðrum stofni að sögn mannfræðinga. Að eðlisfari eru þeir sagðir sannorðir, friðsamir, heiðvirðir og bjartsýnir. Þeir kvað hafa næma tilfinning fyrir skyldu sinni í hverju máli. Atvinnuvegir þeirra eru jarðrækt og veiðar. Allir atvinnuvegir þeirra og lífskjör yfirleitt eru þó að sögn á mjög frumlegu stigi; og túarbrögð þeirra einkum sóldýrkun, og tilbeiðsla allskonar skorkvikinda sem úir og grúir af í hitabeltinu þar sem landið liggur.

Trúboðshreyfingin í þessu fjarlæga landi á sér merkilega sögu. Í fyrra (1942) var þess minst að sjötíu og fimm ár voru þá liðin frá því er fyrstu lútersku trúboðarnir komu til þessara héraða. Ber þar fyrst að nefna **Lars Skrefsrud** (f. 1840, d. 1910) ættaðan úr Guðbrandsdalnum í Noregi. Foreldrar hans voru bláfátæk hjón í húsmensku hjá bónda einum þar í dalnum er Lars fæddist, og lengi þar á eftir. Hlaut drengurinn lélegt uppeldi, og nær enga mentun á uppvaxtarárum. Varð hann snemma að fara að vinna fyrir sér, en lenti í slæmum félagsskap, og varð uppvís að þjófnaði. Fyrir þetta bernskubrek hlaut hann tveggja ára fangahússvist. En fangahússvörðurinn var mannvinur og mannþekkjari. Hann sá hvað með drengnum bjó og hlynti að honum á ýmsan hátt. Í fangelsinu varð hann fyrir ákveðnum trúarlegum áhrifum. Er sagt að hann hafi séð Nýja testamentið þar í fyrsta sinn á æfinni, og að hann hafi lært það spjaldanna á milli utanbókar. Auk þess lærði hann þar ýmsar aðrar greinar, svo sem þýzka tungu. Er hann var látinn laus fór hann heim í sveit sína, en þar vildi enginn við honum líta, hann var brennimerktur tugthúslimur. Hvarf hann þá til Þýzkalands, og komst fyrir aðstoð góðra manna á trúboðsskóla hins svonefnda Gossner trúboðsfélags þar í borginni. Eftir nokkur ár lauk hann námi við stofnun þessa, og helgaði sig upp frá þeim tíma trúboðsstarfi á meðal íbúa Santal héraðanna, sem þá var ókunnur og ónuminn akur.

Skrefsrud lagði af stað með heitmey sína til þessa fyrirheitna lands, haustið 1863. En nokkru áður hafði hann bundið vináttu við ungan danskan vélfræðing, að nafni P. O. Borresen. Hafði hann einnig ákveðið að verja lífi sínu sem trúboði á þessu sama svæði og kom þangað ári síðar. Skömmu síðar braust út stríð milli Þýzkalands og Danmerkur og þeir félagar voru sviftir þeirri fjárhagslegu aðstoð sem þeir höfðu áður hlotið frá trúboðsfélaginu í Berlin. Ýmsir mætir menn í Calcutta hlupu nú undir bagga með þeim, og veittu þeim allmikla hjálp. Skrefsrud var framtaksmaður mikill og mælskugarpur á ýmsum tungumálum. Sem dæmi þess má nefna að hann þýddi ritninguna á tiltölulega skömmum tíma á hina flóknu tungu Santal manna, og var þó ekkert bókmál fyrir áður til að styðjast við. Árið 1867 komu þeir upp kirkju, sem þeir kendu við heilagan Ebenezer. En bygðarmenn kunnu illa háttalagi þessara erlendu manna og brendu húsið til ösku. Tók Skrefsrud sig nú til og ferðaðist víða um landið til að safna fé til nýrrar byggingar. Var svo ný

kirkja reist og sterkur múr bygður um hana. Hefir henni ekki verið grandað síðan.

Skrefsrud var óþreytandi í starfi sínu, bæði á trúboðssvæðinu sjálfu og ferðalögum út um heim til að kynna kristniboðsvinum víðsvegar ástandið í Santal bygðum. Hann fékk því til leiðar komið að Bretar innleiddu nýja löggjöf fyrir landsmenn, og kom þar á algerðu vínbanni. Var þetta síðara mjög óvinsælt víða um héruðin, og er sagt að Skrefsrud hafi stundum orðið að ferðast huldu höfði á þeim tímum á meðan æsingurinn var hvað mestur. Hann kom nokkrum sinnum vestur um haf, og ferðaðist víða á meðal Norðmanna í Bandaríkjunum og var vel tekið. Alstaðar var tilgangurinn hinn sami: að vekja áhuga fyrir trúboðinu í Santal. Hvar sem hann kom fylktist að honum múgur og margmenni, og enginn gekk ósnortinn úr kirkju hjá honum. Hann talaði eins og sá sem valdið hafði um Guðs náð og áþján manna undir valdi syndarinnar. Ein deild lútersku kirkjunnar í Bandaríkjunum, **The Norwegian Lutheran Free Church,** tók þetta trúboðssvæði á starfsskrá sína; auk þess hefir það verið stutt ríflega á ári hverju, alt þangað til þetta stríð hófst, af ríkiskirkjunum og einstökum trúboðsvinum í Danmörku og Noregi.

Full tvö ár liðu frá því þeir Skrefsrud og Borresen komu til Santal unz hinir fyrstu Santal-búar tóku skírn. Hinar fáránlegustu sögur voru útbreiddar meðal fólksins um það hvert hlutskifti biði þeirra er tækju trú. Var sagt að alla kristna menn ætti að flytja út á ey eina, og þar yrðu þeir að hoppa á einum fæti það sem eftir væri æfinnar. En brátt hvarf þessi heimska úr meðvitund fólksins. Er nú talið að um 25 þúsundir manna á þessu svæði játi kristna trú og séu meðlimir lútersku kirkjunnar.

Nokkru sunnar á austurströnd Indlands er trúboðssvæði Sameinuðu lútersku kirkjunnar í Ameríku (U.L.C.A.). Þangað kom séra F. Heyer fyrir rúmlega hundrað árum, og þar er nú sjálfstætt kirkjufélag, sem heitir **Andra Evangeliska Lúterska Kirkjan.**

Kirkja vor er því enginn nýgræðingur á Indlandi. Dönsku-Halle trúboðarnir sem svo eru nefndir komu þangað austur árið 1706. Með komu þeirra þangað hófst nýtt tímabil í sögu trúboðsviðleitninnar erlendis. Er nú talið að rúmlega 400,000 manns í Indlandi játi lúterska trú.

En í allri trúboðssögu heimsins hefir Santal svæðið sérstöðu að því leyti að það er vottur þess sem oft gleymist, að það sem er útskúfað hjá mönnunum er mikilsvert hjá Guði. Hinn ungi og afvegaleiddi Skrefsrud gaf sig Guð á vald, og varð voldugt verkfæri í hendi hans. Svo fór að lokum að hann knúði fram viðurkenningu frá sinni eigin þjóð, sem lengi vildi ekkert um hann heyra eða af honum vita. Ríkiskirkjan norska veitti honum prestvígslu árið 1882. En mesta viðurkenningin sem hann fékk kom þó ekki frá kirkjunni, heldur frá hinum mikla skáldjöfri Noregs, Björnstjerne Björnson. En hann sagði um Skrefsrud að hann væri "mætasti sonur Gudbrandsdalsins." (Gudbrandsdalens störste Sön).

# LOHENGRIN

Eins og sönglistin er tungumál sálarinnar, eins er hún ósjálfráð þrá mannsins uppávið til Guðs, sem er ímynd helgustu hugsjóna mannssálarinnar, því eru hinar dýrðlegu óperur Lohengrin og Parsifal eitt af því sem svalar þorsta sálarinnar og þær skilja eftir hjá manni yfirgnæfandi lotning fyrir dýrð hins himneska.

"Knights of the Holy Grail" voru menn þeir kallaðir, sem gættu bikarins helga, er Kristur bergði af við síðustu kvöldmáltíðina sem hann neytti með lærisveinum sínum. Hinar fornu helgisagnir miðaldanna herma frá því, að Jósep frá Arimathea hafi tekið bikarinn að lokinni máltíðinni og hafi hann ætlað sér að eiga hann til minningar um meistarann.

Eftir krossfestinguna hafði Jósep svo látið drjúpa í bikarinn blóð úr líkama Krists. Síðar flutti svo Josephus, sonur Jóseps, þessa helgu dóma til Bretlandseyja. Þar var svo bikarinn geymdur um langt skeið undir umsjón hinna göfugu, hreinhjörtuðu og hugprúðu riddara, sem hétu því við æru sína, trú og drengskap, að lifa þannig lífi, að þeir væru þess verðir að gæta hins heilaga bikars. Þessum helgu dómum fylgdi undraverður lækningakraftur og göfgandi áhrif. Ótal helgisagnir og sögur voru sagðar um bikarinn helga og hina göfugu riddara, sem gættu hans.

Hinn rómantíski ljómi og helgiblær er hvíldi yfir þessum sögnum, varð mörgu miðalda skáldinu að yrkisefni, bæði á Bretlandi og yfir á meginlandi Evrópu, einkum Frakklandi og Þýzkalandi. Eitt fegursta kvæðið, söguljóð, orti þýzka skáldið fræga, Wolfram von Eschenbach nálægt 1210. Megindráttinn úr því kvæði valdi Wagner sér fyrir efni í sína miklu og fögru sorgar söngleiki Lohengrin og Parsifal, þótt hann sameinaði að nokkru í Lohengrin sögu riddara Arthur konungs. Vafalaust hefir Wagner orðið stórhrifinn af þessum kvæðum og sögnum, því hin volduga og undurfagra músik er samin af innblásnum anda. Með þessum tónverkum sínum hóf hann hinar fornu helgisögur upp í hærra veldi, gaf þeim vængi til að fljúga á um víða veröld og bera vitni í sönghöllum heimsins þeim göfgandi áhrifum er fylgja hreinum og háleitum trúar hugsjónum.

Það var fyrir áhrif Franz Liszt, hins mikla tónskálds og meistara slaghörpunnar, að hið mikla verk Wagners, Lohengrin, var fyrst gefið út og opinberlega sungið. Hann lauk við þessa óperu árið 1847, en það var ekki fyr en 1850 að Liszt kom því til leiðar að hún var sungin í Weimar á Þýzkalandi í fyrsta sinn. Liszt hafi lýst aðdáun sinni yfir þessari nýju óperu og vegna þess að hann hafði álit á sér sem ágætt tónskáld og markverðasti "pianisti" þeirra tíma, gat hann komið því til leiðar að Lohengrin væri sungin. Sjálfur var Wagner í útlegð vegna þátttöku sinnar í pólitík

þeirra daga. Bréf þau er fóru á milli Liszt og Wagners sýna það að Liszt bar djúpa lotning fyrir þessu verki Wagners. Hin óumræðilega himindýrð tónanna í forspilinu, og nú á dögum er Lohengrin alment álitin eitt af fergustu verkum Wagners. Svana músikin, einsöngvar Lohengrins og draumur Elsu, eru ógleymanleg og óviðjafnanleg öllum er heyrt hafa.

Á iðgrænum árbakka, með laufguðum skóg alt í kring, situr Henrik, konungur Þýzkalands í tilreiddu hásæti, með hirð sína umhverfis sig. Á aðra hlið er saxneskir aðalsmenn, en hinumegin fylking hertogans af Brabant, Telramund, og Ortrúð kona hans við hlið honum. Konungurinn hefir heimsótt Telramund í þeim erindum að safna her. En illa stendur á þar, því ungur sveinn, Gottfred, erfinginn að hertogadæminu, sem með systur sinni, Elsu, er undir umsjón Telramund — er horfinn. Telramund hafði ásett sér að giftast frænku sinni Elsu, en Ortrúð hefir talið honum trú um að Elsa hafi fyrirfarið bróður sínum. Telramund, sem svo hefir gifst Ortrúð, ákærir Elsu fyrir konunginum. Ortrúð er ennþá heiðin, grimmlynd og göldrótt, þó kristni sé viðtekin í landinu, og hefir sjálf verið orsök í því að Gottfred er horfinn og er undir álögum.

Telramund er í miklu áliti fyrir hreysti sína og hafði þar að auki frelsað líf konungsins í orustu við Dani. En konungur er tregur að trúa því að Elsa sé sek og skipar að hún sé látin koma fram fyrir sig. Elsa kemur svo, klædd hvítum kyrtli með sitt gullna hár slegið og gull koffur um enni sér, umkringd af þernum sínum. Hún er ímynd sakleysis, með dreymandi augu, sem enn eru undir áhrifum draumsins sem hana hafði dreymt um nóttina.

Telramund leggur fram ákæru sína, með Ortrúð við hlið sér. Konungur úrskurðar að Elsa skuli nefna riddara til að berjast fyrir sína hönd við Telramund; sá sem sigrar á að vera sýknaður eftir gömlum sið. Elsa vill engan nefna, en eftir að gengið er fast að henni, segir hún frá draumi sínum — þar sem riddari í skínandi herklæðum kemur henni til hjálpar. Þessi aría, draumur Elsu, er dásamlega falleg, og kemur berlega fram þar það sem kallað er "Grail músik" — mjúkir himintónar leiknir á fíólínin eingöngu, sem gagntaka mann. Konungur er mjög hrifinn og ákallar Guðsdóm. Það er blásið á lúðra til hinna fjögurra vinda, og þeim boðið að koma fram sem verja vilji Elsu af Brabant. Það er ekkert svar og þá fellur Elsa á kné og biðst fyrir. Aftur er blásið í lúðurinn og þá sézt ný sjón.

Að vatnsbakkanum syndir hægt og seint stór svanur með gullfesti um hálsinn sem dregur bát. Úr bátnum stígur á land riddari í skínandi herklæðum með skjöld og sverð og syngur aríuna: "Þökk sé þér, þú ljúfi svanur". Konungur tekur á móti og heilsar þessari tignu persónu, og Elsa horfir á hann með augum fullum af trausti og aðdáun. Hann tilkynnir henni að hann sé komin til að frelsa hana frá ákærunni og spyr hvert hún vilji heita sér eiginorði. Hún þakkar auðmjúklega og tjáir sig fúsa til að verða eiginkona hans. Hann býðst þá til að berjast við Telramund, en

setur aðeins eitt skilyrði: að hún megi ekki fræðast um nafn sitt og tign né hvaðan hann komi. Hann ítrekar þetta tvisvar ,en Elsa er svo hrifin og ástfangin að hún lofar þessu hiklaust. Þegar alt er til reiðu syngur Henrik konungur aríuna: "Königs Gebet" eða kóngsbæn, þar sem hann ákallar Guð sem dæma eigi þetta mál. Telramund og Lohengrin berjast, og þó Lohengrin sé sigurvegari, deyðir hann ekki mótstöðumann sinn.

Ortrúð fer heim með mann sinn særðan og ákallar sína Guði – Wotan og Freyju og hótar hefndum. Hún telur Telramund trú um að ef þau geti komið Elsu til að spyrja Lohengrein um nafn og tign – þá sé hann sigraður. Telramund fær nýjan kjark. Elsa kemur út að glugganum á herbergi sínu til að syngja um ást sína og hamingju. Ortrúð kallar til hennar og biður um að mega túlka henni iðrun sína og löngun um fyrirgefning. Um leið sáir hún með slægð, sæðum vantrausts á Lohengrin í hjarta Elsu og telur henni trú um að hún verði að fá vitneskju um hver brúðgumi hennar sé. Elsa syngur um kærleika sinn en þrátt fyrir það hafa orð Ortrúðar borið ávöxt. Næsta dag fer gifting Elsu og Lohengrin fram og þarf ekki að minna á hinn fræga brúðarkór eða "Bridal Chorus", sem spilað er við nærri hverja einustu giftingu nú á dögum.

En á leiðinni til kirkjunnar verður nokkuð uppistand. Ortrúð og Telramund, full af heift út af smán sinni, ákæra Lohengrin fyrir konungi um að hafa unnið sigurinn með vélabrögðum og særa hann til að segja frá hver hann sé. En konungur vill ekki hlusta og giftingin heldur áfram, þó vantraust og forvitni Elsu fari alt af vaxandi. Eitt af fallegustu og dýrðlegustu lögum í Lohengrin er spilað af hljómsveit í byrjun þessa þáttar, hið velþekta Prelude eða "Epithalamium forspil". Brúðarkórinn er sungin af hirðmeyjum og hirðmönnum áður en Elsa og Lohengrin fara til herbergja sinna. Þá byrjar Elsa að lokka Lohengrin til að segja sér nafn sitt, en hann færist undan og minnir hana á drauminn og sitt fyrra traust. En eitrið sem Ortrúð hefir sáð í hjarta hennar er yfirsterkara. Hún spyr aftur. Þá opnast dyrnar og Telramund, ásamt fjórum af hirðmönnum sínum, brýst inn. Hann dregur sverð sitt og Lohengrin verður að verja sig og rekur hann í gegn. Riddararnir krjúpa á kné yfir hinum dauða hertoga og bera svo líkið út á þann stað sem kallaður er "Oak of Justice" eða eik dómsins.

Nú veit Lohengrin að hann kemst ekki lengur hjá því að segja til nafns síns. Elsa gengur út á völlinn þar sem konungur bíður undir eikinni og Lohengrin á eftir henni – bæði náföl og hrygg. Þessi þáttur er einn af hinum stórkostlegustu sorgar atriðum í nokkrum leik, en þó dýrðlegur og tilkomumikill. Lohengrin skýrir frá að Elsa hafi brotið loforð sitt og segir til nafns síns: að hann sé sonur Parsifal, sem er "Knight of the Holy Grail". Þá vaknar Elsa af draumi og sér árangurinn af vantrausti sínu. Hún syngur og barmar sér. En í fjarlægðinni sézt svanurinn með bátinn á leiðinni að árbakkanum. Lohengrin, hryggur, kveður Elsu og

segir henni að ef hún hefði borið traust til sín í eitt ár, myndi bróðir hennar, Gottfred, hafa frelsast úr álögunum.

Nú er svanurinn komin að bakkanum og Ortrúð fær ekki lengur staðist, en hrópar að hennar brögð og guðir séu sterkari, því svanurinn sé Gottfred, bróðir Elsu! En hún hrósar sigri of fljótt, því þegar Lohengrin heyrir, krýpur hann á kné í bátnum og biðst fyrir. Þá sézt dúfan, sem táknar "The Holy Grail" staðnæmast yfir svaninum og Lohengrin stendur upp og tekur festina af hálsi svansins. Og svanahamurinn fellur af bróður Elsu og hann losnar úr álögunum og stígur á land í silfurlitum klæðum. Lohengrin býður lýðnum að hylla hinn unga hertoga af Brabant. Sveinninn flýr til systur sinnar og Elsa faðmar hann að sér. En bátur Lohengrins líður frá landi og dúfan dregur hann nú í stað svansins. Elsa mænir harmþrungnum augum á eftir manni sínum og sorg og angist hljómar í söng hennar unz hún hnígur til jarðar örend. En í fjarska heyrist svanasöngurinn — grunntónn óperunnar — smá deyja út.

M. S.

---

# Icelandic Poems and Stories

By Richard Beck

Markverður atburður fanst mér það í sögu okkar Vestur-Íslendinga, að út er komin "Anthology" eða úrval af íslenzkum sögum og ljóðum safnað af hinum ágæta mentamanni, Dr. Richard Beck.

Mér dettur ekki í hug að reyna að leggja dóm á þetta verk, né heldur að dæma um hvert þýðingarnar séu fullnægjandi; aðeins láta ánægju mína í ljósi yfir því að íslenzkum unglingum er hér veittur aðgangur að vestur-íslenzkum bókmentum á því máli sem nú er þeirra móðurmál. Slíkar bækur og þessi eru sterkur þáttur í því bandi sem tengir saman hina eldri kynslóð og hina yngri.

Það hefir lengi verið mín hjartans sannfæring að unglingum af íslenzku bergi brotin ætti að veitast þekking á íslenzkum hugsunarhætti og íslenzkum sérkennum, á ensku máli.

Síðan Dr. Beck kom til þessa lands hefir hann stöðugt reynt að leiða fyrir sjónir hins íslenzka-canadiska þjóðarbrots sem heima á í þessari áifu, alt sem út hefir komið bæði mentandi og fræðandi og uppbyggjandi fyrir Íslendinga hvar sem er. Fyrir það á hann margfaldar þakkir skilið og er það sannarlega heiður og sómi fyrir Íslendinga í Canada og Bandaríkjunum að eiga hann að á sviði bókmenta.

M. S.

# MINNINGAR

## FRÚ BJÖRG THORSTEINSSON

**Fædd 31. des. 1878 – Dáin 10. apríl 1943**

Fyrst þegar fundum okkar bar saman var eg innan við tvítugt, var hún þá fyrir stuttu komin frá Íslandi með manni sínum og börnum. Vorum við systurnar þá til heimilis hjá henni um tíma í Winnipeg. Þegar eg sá hana fyrst tók eg sérstaklega eftir því hvað höndin var mjúk og handtakið traust og innilegt.

Andrúmsloft heimilisins var heilbrigt og sérstaklega íslenzkt. Hjónin bæði svo gáfuð og bókhneigð, svo fyrirmannleg í allri framkomu, prúð og orðvör, listræn og fíngerð.



Frú Björg Thorsteinsson

Þá var heimilið hennar henni alt og ástvinahópurinn; foreldrar, systkini, eiginmaður og börn fjársjóður hennar. Hún starfaði í kyrþey fyrir þau og þráði að vera þeim alt. Eg dáðist á listræni hennar og afkastasemi í hannyrðum, hafði hún hlotið ágæta mentun í þeirri grein á Íslandi og í Danmörku, þó höndin virtist aldrei snör í hreyfingum vanst henni alt svo vel og vandvirknin var svo mikil.

Hin síðari ár bar fundum okkar oft saman á ný. Þó heilsa hennar væri þá lömuð og fóturinn stirður, héldust allir beztu eiginleikar hennar lítt breyttir. Altaf var sama tryggðin til vina og vandamanna, sami hlýhugurinn sem streymdi frá henni – sama trausta handtakið og sama ástin til alls þess sem íslenzkt var.

Aldrei mun Björg hafa fundið sig heima í þessu landi, hennar mesta gleði þessi síðustu ár fanst mér í því fólgin að rifja upp atvik frá æskuárum barna sinna þegar hópurinn var saman og að rifja upp æskuminningar hennar sjálfrar frá Íslandi – yfir þeim var svo bjart, um þær var henni ljúft að tala.

Síðast þegar við áttum tal saman, sem var nokkrum klukkutímum áður en hún lézt, var hún að lýsa því fyrir mér hvað fagurt hefði verið sólskinið á fjöllum á Íslandi – morgunsólin á fjöllunum kæru fanst henni hafa verið svo dásamleg. – Og við útför hennar var sungið:

"Æ morgun roði, rís þú skjótt á hæðum,
Því mér svo fulla færir gnótt af gæðum.
Með englum öllum og með hljómi snjöllum
Eg fagna er ljómar lífsins sól á fjöllum."

Við fögnum með henni að lífsins sól lýsir sálinni hennar fögru sem nú nýtur sín til fulls, laus við fjötur líkamans. Við sem stundum höfðum þá ánægju að taka á móti henni á heimili okkar, finnum til þess, að við vonum að hún verði í hópi þeirra, sem bíða okkar á ströndinni fögru.

**Ingibjörg J. Ólafsson**

---

## FRÚ JÓHANNA MAGNÚSDÓTTIR ERLENDSON



Frú Jóhanna Magnúsdottir Erlendson

Kvenfélag Herðubreiðarsafnaðar, söfnuðurinn sjálfur, bærinn Langruth og nágrennið, kvöddu þessa góðu konu með mikilli eftirsjá þegar hún flutti vestur á Kyrrahafsströnd í september - mánuði 1941. En þegar fréttin barst til Langruth, 9. janúar 1942, að hún hefði dáið af bílslysi, var það mikið sogarefni hennar mörgu vinum í þessu nágrenni.

Jóhanna Erlendson var fædd 29. ágúst 1878 að Grjóteyri í Kjós. Foreldrar hennar voru hjónin Magnús Vigfússon og Kristín Benjamínsdóttir, sem áttu fáa sína líka hvað dugnað og attorku snerti og fetaði Jóhanna þar dyggilega í fótspor foreldranna samhliða manni sínum, Hannesi Erlendson, sem hún giftist árið 1896. Hún barðist sem hetja á frumbýlisárunum og kom vel upp stórri og myndarlegri fjölskyldu. Sex af börnum hennar eru á lífi: Halldóra, yfirhjúkrunarkona á spítala í Victoria, B. C., Magnús, vinnur á pósthúsinu í Winnipeg; Bentína, skólakennari, er nú

við skrifstofustörf í Vancouver; Helga, (Mrs. Al. Ferguson), Vancouver; Jón, bankamaður í Winnipeg en nú í hernum, og Jóhann, smiður í Vancouver. Tvær systur hennar eru á lífi, Guðný Benedictson í Langruth, Man., og Sigurlína Robinson í Weyburn, Sask.

Árið 1900 komu þau Jóhanna og Hannes til Canada og settust að við Manitoba-vatn austan við Langruth, en eftir 1913 að bærinn fór að byggjast, fluttu þau þangað og höfðu þar dálítið bú, sem þau stunduðu vel, en annars vann Hannes hverja aðra vinnu sem bauðst.

Fjölskyldan studdi öll góð málefni, vann að safnaðarmálum og studdi bókafélagið og Jóhanna var meðlimur kvenfélagsins frá því það var stofnað 1916. Fyrir Rauða Krossinn vann hún líka vel og kappsamlega bæði í fyrra stríðinu og því sem nú stendur yfir og alstaðar var hún örugg og ábyggileg og altaf jafn samvinnuþýð, glöð og góð. Öllum þótti vænt um Jóhönnu.

Mann sinn misti hún um vorið 1925, en haustið áður efnilega og góða dóttur, 16 ára gamla. Þrátt fyrir þetta mikla mótlæti bar Jóhanna sig sem hetja og hélt heimili sínu eins og áður með dugnaði og sóma.

Stundum varð þess vart, að hana langaði til að sjá hafið sem hún elskaði jafnan frá bernskuárum sínum í Reykjavík, þar sem hún ólst upp. Það var því gleðiefni vinum hennar að hún fékk þessa ósk sína uppfylta og vonuðu, að hún fengi að njóta margra og langra ánægjustunda vestur á ströndinni með börnum sínum, sem alla hluti vildu fyrir hana gera.

Hún var jarðsungin af séra Rúnólfi Marteinssyni hinn 14. janúar frá dönsku lútersku kirkjunni í Vancouver og var jörðuð í Ocean View grafreitnum. Blessuð sé minning hinnar látnu félagssystur.

**Lena Thorleifson**

---

## FRÚ ÓLÍNA SIGRÍÐUR JOSEPHSON

Þann 26. júlí 1942 andaðist að heimili sínu í Glenboro, ekkjan Ólína Sigríður. (Maður hennar, Árni Josephson, er nú látinn fyrir nokkrum árum). Banamein hennar voru afleiðingar af slagi, sem hún hlaut að morgni, en hvíld var hennar áður en kvöld var komið. Hún var fædd í Fótaskinni í Aðaldal í Suður Þingeyjarsýslu, 1869. Vestur um haf kom hún um 1900, og þá til Selkirk, en innan þriggja ára giftist hún manni sínum, sem þá bjó stórbúi í Minneota, Minnesota. Árið 1920 seldu þau bú sitt þar og fluttu til Glenboro, Manitoba. Keyptu þar höfðingssetrið Maplehurst, og sátu það með risnu og höfðingsskap meðan dagar entust. Þeim var sex barna auðið: 1. Margrét (Mrs. Aarskaug), Madison, Minn.

2. María (Mrs. Sigmar), Glenboro, Man. 3. Óskar, vélamaður í Glenboro. 4. Ólína Sigríður, dáin fyrir fáum árum. 5. Árni, býr í Glenboro. 6. Esther (Mrs. Taft), Glenboro. Fimm stjúpbörnum gekk hún í móðurstað: Mrs. Groff, Madison, Minn., Mrs. White í Breckenridge, Minn., Frank og Helgi, tveir bræður í Minneota, Minn., og Sigurður, sem býr nálægt Glenboro. Tvær systur eru hér í landi, þær Mrs. Jónína Johnson, Edmonton, Alta., og Mrs. J. Gíslason, Riverton, Man. Ein systir, Guðrún, bjó lengi í Fótaskinni (nú Hellulandi) í Aðaldal á Íslandi. Jarðarförin fór fram frá heimili og kirkju þann 30. júlí, að viðstöddum fjölda vina og flestra nánustu ættingja og barna, sem gátu komið. Hún var lögð til hvíldar í Glenboro grafreit. Séra E. H. Fafnis jarðsöng.

————————————

## FRÚ GUÐRÚN GÚÐMUNDSSON
## 1853–1943

Gnðrún Guðmundsson var fædd 21. okt. árið 1853. Foreldrar hennar voru Benjamín bóndi á Márstöðum í Vatnsdal, og Ingibjörg Guðmundsdóttir kona hans. Árið 1878 giftist hún Pétri Stefáni Guðmundssyni og byrjuðu þau búskap sinn á Mosafelli í Svínadal.

Til Vesturheims fluttu þau árið 1883 og settust að í grend við Garðar, N. Dakota, þar sem þau tóku heimilisréttarland. Árið 1901 fluttu þau til Nýja Íslands, settust að á landi og nefndu heimilið sitt Árdal og við það var svo bygðin kend og kölluð Árdalsbygð.

Stefán, maður Guðrúnar, andaðist 1. apríl 1936, og hefir Guðrún átt heimili í Árdal síðan hjá Sigurbjarti, yngsta syni sínum, og Valgerði konu hans. Önnuðust þau um hana og hjúkruðu henni þar til hún var kölluð heim,4. júní 1943.



Frú Guðrún Guðmundsson

Guðrún var mjög nærfærin ljósmóðir og tók á móti fjölda barna áður en læknir var fenginn í bygðina.

Hún var ein af stofnendum kvenfélags Árdalssafnaðar og var meðlimur þess til þess síðasta. Fyrsta guðsþjónustan í Árdalssöfnuði var

haldin í litla bjálkahúsinu þeirra 1901. Séra Rúnólfur Marteinsson prédikaði. Lúterska kirkjan í Árborg á dýrmæta muni sem munu geyma minningu þeirra beggja. Fyrri gjöfin var yndisleg altarismynd, og sú síðari, líkbörur, sem voru gefnar kirkjunni í minningu um Stefán heitinn.

Guðrún sáluga var myndar kvenmaður, bæði í sjón og verki, hún var trúföst og trygglynd, og við fráfall hennar sjáum við á bak hetju meðal landnema í bygðinni okkar. Blessuð sé minning hennar.

G. A. E.

---

## FRÚ FRIÐRIKKA BJÖRNSON ÓLAFSON



Frú Friðrikka Björnson Ólafson

Tengdasystur minni, frú Friðrikku Björnson Ólafsson, kyntist eg lítið áður en hún giftist mági mínum, séra Kristni K. Ólafson, 2. nóv. 1915. En upp frá þeim degi varð viðkynningin náin og óslitin. Tókst með okkur innileg vinátta sem hélzt til dauðadags hennar. Var hún mér sem systir, hlý og ástúðleg í viðmóti, ætíð reiðubúin að taka þátt í gleði minni eða sorg. Svo minnug var hún á alt slíkt, að sjaldan leið svo hjá nokkur endurminningadagur minnar fjölskyldu, að ekki kæmi bréf frá henni til merkis um að hún væri .með okkur í anda Þessi trygð hennar og nærgætni var mér ómetanlega mikils virði.

Frú Friðrikka var ágætlega af Guði gefin, til líkama og sálar. Hún var greind og bókhneigð, lesin vel, fróð og skemtileg í viðræðum, listfeng á hvað sem hún gerði. Enda var heimili hennar smekklegt, fagurt og prýðilega rækt.

Foreldrum sínum var hún ástrík dóttir. Á yngri árum var hún oftast heima hjá þeim, nema þá tímana sem hún var annarsstaðar við nám eða skólakenslu. Foreldrar hennar eyddu síðustu æfiárum sínum á heimili hennar við fágæta umönnun. Systkinum sínum unni hún mjög og þau henni. Öll voru þau frábærlega hjálpsöm og fórnfús, hvert í annars garð.

Manninn sinn elskaði hún og virti. Hún sagði oftar en einu sinni við mig, að sá kærleikur, og sú virðing færi vaxandi með hverju árinu sem þau væru saman. Þó hún að eðlisfari væri ekki sérstaklega gefin fyrir sambönd utan heimilis, unni hún kirkjulegu starfi manns síns, og vildi á allan hátt styðja það. Enda gerði hún það af alúð, eftir því sem heilsan leyfði.

Móðurhæfilegleikar hennar voru frábærir. Hún lagði fram alla sína kærleikskrafta börnum sínum og stjúpsonum til heilla og hjálpar. Hennar heitasta ósk var sú, að lífskraftar hennar, sem í mörg ár höfðu verið á fallandi fæti, gætu enst meðan börnin þyrftu umönnunar og leiðbeiningar frá henni. Þessa hjartans þrá sína fékk hún uppfylta.

Frú Friðrikka andaðist 14. nóvember 1942, eftir langt og strangt sjúkdómsstríð, sem hún bar með frábærri þolinmæði, kristilegri rósemi og sigurvissu. Það væri óviðeigandi að fara orðum um söknuð fjölskyldunnar, og sorg. En sú rósemi og trúnaðartraust, sem einkendu þessa ágætu eiginkonu og móður eru einnig eftirtektarverð í framkomu fjölskyldunnar, sem nú syrgir hana.

Persónulega sakna eg vinkonu minnar sem góðrar systur. En blíðar og hugljúfar endurminningar um hana, eru og verða mér hjartfólginn fjársjóður.

**Kirstín H. Ólafson**

---

# SKÝRSLA FORSETA

Kæru félagssystur:

Mér er það sönn gleði að mega bjóða velkomna í dag, erindreka og gesti á hið nítjánda þing Bandalags lúterskra kvenna. Þegar litið er til baka yfir ársstarf Bandalagsins kemur í ljós að verkinu hefir miðað stöðugt áfram. Starf kvenna, hvert heldur það er við heimilið, atvinnu eða félagsstarf sýnist oft vera árangurslítið, en ef unnið er með fórnfýsi og kærleika, kemur síðar, með Guðs hjálp, góð uppskera. Eg vil sérstaklega þakka góðum og umburðarlyndum félagssystrum mínum í stjórnarnefndinni fyrir margvíslega hjálp. Eg hefi fundið til þess að stjórn Bandalagsins getur verið umfangsmikil og ábyrgðarfull staða og því hefi eg beðið innilega um styrk og réttsýni til að framkvæma það starf sem mér er ætlað, og vona af öllu hjarta að þessar stundir sem við eigum hér saman, verði okkur til ánægju og uppbyggingar, og að hver og ein flytji kveðju þrungna af óskum um góða samvinnu og góðan áhuga fyrir sameiginlegu starfi, til heima félaganna.

Hvað hafa svo milliþinganefndir gert á árinu? Stjórnarnefndin hefir mætt þrisvar sem heild og voru þeir fundir haldnir hjá Mrs. Finnur Johnson, Mrs. A. S. Bardal og Mrs. Gunnl. Jóhannson í Winnipeg, og vil eg þakka þeim ágætar viðtökur og skemtilega fundi. Landkaupanefndin hefir haft erfitt verk að vinna og verður á þinginu lögð fram skýrsla yfir það sem hefir verið gert. Námsskeiðsnefndin hefir mætt líka nokkrum sinnum og verður þinginu greint frá hennar starfi þegar að því kemur á dagskrá. Á eftir hverjum stjórnarnefndarfundi voru bréf send til allra félaga í Bandalaginu, sem tilkynti hvað gerst hefði.

Á þinginu í fyrra var framkvæmdarnefndinni falið að undirbúa árs program fyrir fundi, en henni fanst að vegna Red Cross annríkis, myndi ráðlegra að sleppa föstu programmi, en biðja hvert félag heima fyrir að undirbúa sína skemtifundi. Fyrir mitt leyti, finst mér það vera gott fyrir félögin að útbúin sé sameiginleg skemtiskrá sem fylgja má ef kringumstæður leyfa.

Eins og sumarnámsskeiðsnefndin mun skýra frá, var námsskeiðinu slept á þessu sumri. Í þess stað kom bráðabirgða hugmynd um héraðsskóla eða "Parish Schools". Mun Mrs. S. Ólafsson veita upplýsingar um þá. Eg vil hér aðeins þakka öllum þeim sem veittu hjálp og studdu námsskeiðið í fyrra við Rock Lake. Ákveðið var að biðja öll félög sem tilheyra Bandalaginu að hafa samkomu eða "te" til arðs fyrir "camp" sjóðinn, helzt í júní. Ekki veit eg hver árangur hefir af þessu orðið, en við og við hefi eg þó séð gjafalista í Lögbergi, sem sýnir að félögin sum hafa orðið við þessari bón og fyrir það er innilega þakkað því "sameinaðar stöndum vér".

Á þinginu í fyrra var samþykt að senda skeyti með heillaóskum til Sambands Norðlenzkra Kvenna og var Mrs. Finnur Johnson falið að skrifa bréfið og annast þetta að öllu leyti.

Eg þarf ekki að minnast á Árdís, sú skýrsla mun sýna að ritið stendur sig vel fjárhagslega og er velkominn gestur á þau heimili sem hafa keypt það. Í ár voru ekki nóg eintök. Ritstjórum og ráðskonum blaðsins vildi eg biðja þingið að sýna þakklætis viðurkenning með því að standa á fætur.

Eg hefi reynt að minnast á aðal störfin sem eru á dagskrá Bandalagsins. Bindindi hefir verið stutt lítillega á hverju ári og erindrekar mætt á þingi Temperance Alliance. Þessi hjálp er lítil en "dropinn fyllir bollann."

Sorg og eymd um allan heim er enn ekki að linna. Við verðum hver og ein að styðja með krafti öll fyrirtæki sem geta á einhvern hátt bætt kjör miljónanna sem eru heimilislausir, hungraðir og niðurbældir af völdum stríðsins. Og þó við verðum að minka áhuga fyrir þessu eða hinu heima fyrir, þá er ekki þar með sagt að sá áhugi lifni ekki við ef skarað er að eldinum og honum haldið við.

Við höfum mist nokkrar félagssystur og sumar af okkar félagssystrum hafa mist ástvini. Í nafni Bandalagsins vil eg votta innilega hluttekning öllum ástvinum. Eg vil einnig fylgja hugmynd fyrverandi forseta og biðja konur að taka þátt í bænarstund til eflingar friðar, áður en þinginu verður slitið.

Að endingu þakka eg góða samvinnu og traust félagskvenna og vona af öllu hjarta að þetta þing verði öllum sem ánægjulegast.

**Lena Thorleifson**

---

# Þingtíðindi

**Þingið haldið í Fyrstu lútersku kirkju, Winnipeg, 1.—3. júlí 1943.**

(Athugasemd: — Skemtiskrá og skýrslur yfir embættismanna kosningar eru prentaðar í enska fundargerningnum. Nöfn félaga og fulltrúa birt í Lögbergi 8. júlí).

Þingið var sett af forseta, Mrs. G. Thorleifson, kl. 2 e. h. 1. júlí. Mrs. A. H. Gray bauð gesti og erindreka velkomna fyrir hönd eldra kvenfélags Fyrsta lút. safnaðar og Junior Ladies' Aid. Fjórir starfsfundir og tveir skemtifundir voru haldnir í efri sal kirkjunnar.

Samkvæmt skýrslu kjörbréfanefnar þá höfðu konur þingréttindi sem fylgir: 26 fulltrúar frá 17 félögum, 9 meðlimir stjórnarnefndar, 8 meðlimir námsskeiðsnefndar, 1 einstaklings meðlimur og fjórar prestskonur, þær Mrs. V. J. Eylands, Mrs. S. Ólafsson, Mrs. B. B. Jónsson og Mrs. B. A. Bjarnason Einnig voru staddir á þinginu fimm prestar, þeir séra R. Marteinsson, séra H. Sigmar, séra S. Ólafsson, séra V. J. Eylands og séra B. A. Bjarnason.

Áður en þingstörf hófust, þá var minst þeirra félagssystra, sem látist höfðu á árinu: Guðrún Guðmundson, Árborg; Björg Thorsteinson, Selkirk og Jóhanna Erlendson, Vancouver, áður frá Langruth. Það lutu allir höfði í þögulli bæn, séra S. Ólafsson flutti hugkvæma bæn, svo var Faðir vor lesið sameiginlega.

Skýrslur frá 17 kvenfélögum báru vott um aukinn áhuga og meira starf heldur en nokkru sinni áður. 480 meðlimir félaganna hafa tekið inn um $8,000 á árinu, og hefir upphæð sú verið notuð til þess að styrkja söfnuði, heima- og erlent trúboð, útvarp kirkjufélagsins, Sameininguna, námsskeið B. L. K., með því að kosta ungmenni þangað, camp-byggingarsjóð B. L. K., Betel, líknarstarf heima fyrir og annarsstaðar. Líknarstarf þeirra er víðtækt og nær til barna, gamalmenna, fátækra og sjúkra. Það

nær til þess að styrkja sjúkrahús og heilsuhæli. Einnig láta kvenfélögin sér ant um sunnudagaskólann, íslezku kenslu; þau sýna framkvæmd í því að hafa skemtiskrá á fundum og íslenzkar samkomur eldra fólki til skemtunar; þau sjá um sölu á ritunum "Árdísi" og Hlín; sum þeirra létu í ljósi ánægju sína yfir bréfunum frá b. v. skrifara Bandalagsins, Mrs. B. Bjarnason; þau sjá um að prýða kirkjurnar og grafreitina.

Auk alls þessa þá vinna allir meðlimir kvenfélaganna feikna mikið í stríðsþarfir. Þau vinna fyrir, og styrkja fjárhagslega, Red Cross og aðra sjóði svo sem Milk for Britain, Russian Relief, Soldiers' Welfare. Þau senda ótal mörgum hermönnum böggla. Þau kaupa War Savings Stamps, Certificates og Bonds.

Yfir höfuð að tala, þá sýna kenfélögin mikinn áhuga fyrir öllum málum á dagskrá Bandalagsins.

**Fjármál:** Skýrsla féhirðis, Mrs. G. Jóhannson, sýndi $239.96 í sjóði frá fyrra ári; inntektir á árinu $150.79; útgjöld $95.63; í sjóði nú $295.12.

## DAGSKRÁ ÞINGSINS:

**1. Camp-bygging.**

(a) Landkaup. Tillaga var studd og samþykt að landkaupanefndinni sé þakkað tveggja ára starf hennar, og að gerðir hennar í því að kaupa fimm ekrur af landi, sem er tíu mílur fyrir norðan Gimli, séu staðfestar.

(b) Samvinna með camp-byggingu. Skriflegt tilboð kom inn á þingið um samvinnu við camp-byggingu, frá Manitoba District Luther Leauge og Manitoba Federated Luther Leagues of the American Lutheran Church. Tilboð þeirra hljóðaði svona: 1. Að þessi tvö félög borga tvo þriðju af landverðinu.

2. Að nefnd frá þeim mæti nefnd frá B. L. K. til þess að ræða tilboð þeirra um samvinnu við camp byggingu.

Erindrekar höfðu ekki heimild frá félögum sínum til þess að greiða atkvæði með eða móti samvinnu, og þessvegna var eftirfarandi samþykt gerð:

Að námsskeiðsnefndinni nýju, ásamt þremur prestunum, þeim séra V. J. Eylands, séra E .H. Fáfnis og séra B. A. Bjarnason, sé falið að mæta þessari ofangreindu nefnd og að fá hjá henni allar mögulegar upplýsingar viðvíkjandi kostnaði á camp-byggingu, tilhögun með tíma fyrir námsskeiðið á sumrin, og viðvíkjandi samvinnu skilmálum, að tilkynna svo kvenfélögunum upplýsingar þessar, biðja þau að íhuga málið ítarlega og að senda svo úrskurð sinn, hvort þau séu með eða móti samvinnu, til námsskeiðsnefndarinnar, sem í samfélagi við stjórnarnefnd B. L. K. tekur

óskir kvenfélaganna til greina og reynir að komast að æskilegri niðurstöðu í málinu.

2. **Sumarnámsskeiðið:** Skýrsla féhirðis nefndarinnar, Mrs. H. Danielson, sýndi $608.26 í sjóði, gjafir frá einstaklingum og félögum.

Bandalag Lúterskra Kvenna hefir staðið fyrir námsskeiði í kristilegri fræðslu í fjögur sumur, og á þeim tíma nutu 173 nemendur leiðbeiningar þar. Vegna þess að fyrirtæki þetta hefir notið almennra vinsælda á meðal íslenzks lútersks fólks, þá þótti Bandalaginu fyrir því að þurfa að leggja það niður í sumar, en ástæðurnar fyrir því, voru ýmsir erfiðleikar svo sem: há leiga á "camp", skömtun á matvælum, og ekla á hjálp út á landi þar sem unglingar eru of bundnir við vinnu til þess að geta sótt námsskeiðið. Sú tillaga var samþykt á þinginu, að námsskeiðinu sé haldið áfram næsta sumar svo framarlega að mögulegt sé, og að stjórnarnefnd og námsskeiðsnefnd B. L. K. sé falin framkvæmd í málinu.

Þingið lét í ljósi þakklæti sitt við það fólk sem lagði svo mikið á sig til þess að námsskeiðið við Rock Lake í fyrra tækist sem bezt, þær Mrs. G. Jóhannson, Winnipeg; Mrs. Thora Oliver, Selkirk; Mrs. Sigurgeirson, Hekla; Mrs. Christopherson og Mrs. Peturson, Baldur; þá séra E. H. Fáfnis, séra V. J. Eylands og séra B. A. Bjarnason, fyrir utan allar þær Argyle konur sem fram báru veitingar eða aðstoðuðu að öðru leyti.

3. **Bindindi:** Mrs. A. S. Bardal sagði fréttir af þingi Manitoba Temperance Alliance, fréttir sem gerðu ljóst hið mikilvæga og áhrifamikla starf þeirra í bindindismálinu. Hún kvað bindindisfélög vera bein orsök í því að stjórnin minkaði vínbruggun og vínsölu á s. l. ári. Til þess að votta lið sitt og áhuga fyrir málinu, þá samþykti þingið að gefa Manitoba Temperance Alliance nokkurn fjárstyrk. Konur kosnar á næsta þing M. T. A. voru þær: Mrs. A. S. Bardal, Mrs. H. Danielson, og Mrs. F. Johnson.

4. **Árdís:** Skýrsla ráðskonu Árdísar, Mrs. F. Johnson, sýndi $495.89 í sjóði. Ritið hefir aldrei selst betur en þetta s. l. ár. Það var ákveðið að gefa það út með sama hætti og í fyrra.

5. **Red Cross:** Það kom í ljós á þinginu að öll kvenfélögin hafa lagt mikið á sig þetta s. l. ár fyrir Red Cross og aðra stríðsvinnu. Þingið vott aði ánægju sína yfir þessu starfi félaganna, sem aldrei hefir verið nauðsynlegra en nú. Það var samþykt að gefa Red Cross nokkra fjárupphæð úr sjóði B. L. K.

6. **Hannyrðasýning:** Nokkur falleg stykki voru sýnd á þinginu, frá Árnes, Brown og Winnipeg. Það var ákveðið að biðja konur að koma með, á næsta þing, hvaða stykki sem þær eiga og vilja koma með. Óskað var eftir meiri áhuga fyrir máli þessu.

7. **Skemtiskrá fyrir fundi félaganna:** Forseta og skrifara var falið að útbúa hana.

8. **Framsögn íslenzkra ljóða:** Þingið óskaði þess að öll kvenfélögin geri sitt ítrasta til þess að halda við framsögn íslenzkra ljóða, og eins að kvenfélagið, sem býður næsta þingi, sjái um að hafa ísl. framsögn eða söng á skemtiskrá.

Viðvíkjandi ellistyrknum þá var þessi þingsamþykt gerð:

"Bandalag Lúterskra Kvenna skorar á sambandsstjórnina að hækka ellistyrkinn!"

Tveir erindrekar B. L. K. sátu kirkjuþingið að Mountain, N. D., 18.–21. júní, þær Mrs. V. J. Eylands og Mrs. E. Fjeldsted, Winnipeg. Mrs. Fjeldsted las þingyfirlýsingu samþykta á kirkjuþinginu, þess efnis að það teldi sig fúst til samvinnu við sumarskólamál B. L. K.. Þessi samvinna var þakksamlega þegin af Bandalaginu.

Fulltrúar kosnir til þess að sitja næsta kirkjuþing voru þær: Mrs. H. Danielson, Winnipeg; Mrs. G. A. Erlendson, Árborg, en til vara – Mrs. O. Stephenson, Winnipeg, og Mrs. Anna Magnússon, Selkirk.

Við alla fundi og skemtisamkomur þingsins var fjöldi gesta, auk erindreka og embættiskvenna.

Öllum þeim sem þátt tóku í skemtiskránni er vinsamlega þakkað. Kvenfél. Fyrsta lút. safnaðar og Junior Ladies' Aid ber einnig að þakka góðar viðtökur.

Er þinginu lauk þá höfðu allir það á meðvitundinni að það hefði verið skemtilegt og uppbyggjandi. Forseti stýrði því á þann hátt að alt fór friðsamlega í gegn. Vandamál öll voru ítarlega rædd og afgreidd eins vel og mögulegt var.

Í lok þingsins fór fram bænastund, þar sem hugir allra viðstaddra stefndu til Guðs í einlægri bæn um frið, um frið í hjörtum vorum, á heimilum vorum, í bygðum vorum, og í veröldinni yfirleitt. Þau sem bænir fluttu voru: séra V. J. Eylands, Mrs. A. S. Bardal og Mrs. Jóna Sigurðson. Að endingu var Faðirvor lesið sameiginlega.

Þingi slitið um hádegi, laugardaginn 3. júlí.

**Lilja M. Guttormsson,**
skrifari.



# NINETEENTH CONVENTION

**of the Lutheran Women's League, held in the**
**First Lutheran Church, Winnipeg,**
**July 1st to 3rd, 1943.**

The Convention was formally opened by the president, Mrs. G. Thorleifson, at 2 p.m., July 1st.

Devotional Exercises—Rev. V. J. Eylands.

Address of Welcome—Mrs. A. H. Gray.

Short Addresses of appreciation and encouragement to the L. W. L. by Rev. R. Marteinson and Rev. H. Sigmar, recently elected president of the Icelandic Evangelical Lutheran Synod of Amer.

Business meeting until 6 p.m.

**July 1st, at 8.30 p.m.—Program.**

Devotional Exercises—Mrs. V. J. Eylands.

Piano Solo—Miss Agnes Sigurdson.

Paper—"The Three Sisters of China"—Mrs. S. Olafsson.

Vocal Solo—Miss Margaret Helgason, (Piano accompanist—Mrs. B. Isfeld).

Paper—"The Santal Leper Colony in India"—Mrs. Victor Bagger, returned missionary from India.

**Friday, July 2nd—**

9 to 12 a.m.—Business meeting.

Dinner served by the Senior and Junior Ladies' Aids of the First Lutheran Church.

1.30 to 6 p.m.—Business Meeting.

8.30 p.m.—Program.

Devotional Exercises—Mrs. B. B. Jónsson.

Piano Solo—Miss Snjolaug Sigurdson.

Spoken Poetry—Miss Salín Jónasson.

Paper—"Visions of the Future". — Mrs. J. K. Olafson, of Garðar, N.D.

Vocal Solo—Mr. Kerr Wilson, accompanied by Mrs. Wilson.

Paper—"The Challenge of our Foremothers", by Mrs. V. J. Eylands.

**Saturday, July 3rd—**

9 to 12 a.m.—

Prayer Meeting—conducted by Mrs. G. Thorleifson. Rev. V. J. Eylands, Mrs. A. S. Bardal and Mrs. Jona Sigurdson prayed for peace.

Address of appreciation to the Junior and Senior Ladies' Aids — Mrs. Anna Austman.

Convention closed—Mrs. G. Thorleifson, President.

Lunch was served in the afternoons by the Junior and Senior Ladies' Aids, in addition to the dinner on Friday. Their hospitality was greatly appreciated.

**Convention Business in Brief.**

Accredited representatives attended the Convention as follows: 26 delegates from 17 Ladies' Aids, and 20 members of committees and individual members.

**Finances:** The treasurer's report showed: Balance on hand last year, $239.96; Receipts, $150.79; Disbursements, $95.63; On hand July 2nd, 1943, $295.12.

Topics of discussion:—

I. **Camp Building**— (a) Purchase of camp-site. Decision of the camp-site committee to buy a camp-site on the lake shore ten miles north of Gimli, was sanctioned by the convention.

(b) Co-operation in connection with the establishment of a camp. A written proposal came from the Manitoba District Luther League and the Manitoba Federated Luther Leagues of the American Lutheran Church, a proposal of co-operation with the Lutheran Women's League, as follows:

1. That the Luther Leagues bear two-thirds of the cost of the purchase of land for a camp-site.

2. That a joint meeting be held by their committee and one from the L.W.L. to discuss further developments of this camp project.

The delegates at the convention did not feel that they had authority from their societies at home to vote for or against co-operation, therefore, the convention resolved to request the new Leadership Training Course Committee, together with the ministers Rev. V. J. Eylands, Rev. B. A. Bjarnason and Rev. E. H. Fafnis, to meet this other committee in order to get all possible information in connection with a camp project, as to cost, the distribution of time for courses, and details regarding co-operation. This information is to be relayed to all the societies of the L.W.L., who will then make a decision as to their stand, for or against co-operation, and notify the L.T.C. committe, which, in conjunction with the executive, will base their verdict on the stand taken by the societies.

II. **Leadership Training Course**—The League considered it advisable to discontinue the course this summer, on account of certain difficulties, such as high rent to pay for a camp, rationing and the need for the young

people, who would be likely to attend, to work on farms, etc. Interest for this course is still keen, however, and it was resolved to continue it next summer if at all possible.

Financial report of L.T.C. committee showed a balance of $608.26 on hand. Donations to this fund have come from societies and individuals far and wide, and the L.W.L. is most grateful.

III. **Temperance**—Mrs. A. S. Bardal, delegate to the last Manitoba Temperance Alliance Conference, read a most convincing report of the successful endeavors of the Alliance in bringing about a reduction in the brewing and sale of liquor. The members of the L.W.L. resolved to give their support to the cause, and began by voting a sum of money to the M.T.A. Delegates were appointed to the next M.T.A. conference: Mrs. A. S. Bardal, Mrs. H. Danielson, and Mrs. F. Johnson.

IV. "**Ardis**"—The financial report showed $495.89, as balance on hand. That more copies of "Ardis" were sold last year than ever before was evidence that it is satisfactory, therefore, it was decided to continue publishing it in the same fashion as before.

V. **Red Cross**—All the societies are doing a tremendous amount of work in aid of Red Cross and other War Work. The convention expressed its appreciation of this work, and also voted a money donation to the Red Cross fund.

VI. **Program** for next year's meeting was entrusted to the president and secretary to prepare.

VII. **Handicraft Exhibit**—A few societies exhibited excellent articles. It was decided to continue these exhibits at future conventions.

VIII. **Spoken Poetry**—All societies are urged to continue their efforts towards encouraging the study of the Icelandic language, the spoken poetry and songs, among children and young people in their respective districts.

IX. **Election of Officers:**

Honorary Presidents—Mrs. I. J. Olafson, Selkirk.
Mrs. Finnur Johnson, Wpg.
President—Mrs. Lena Thorleifson, Langruth.
Vice-President—Mrs. A. S. Bardal, Wpg.
Recording Secretary—Miss Lilja Guttormson, Geysir.
Cor.-Secretary—Mrs. Jona Sigurdson, Wpg.
Treasurer—Mrs. G. Johannson, Wpg.
Vice-Treasurer—Mrs. Anna Magnusson,Selkirk.

**Executive:**

Mrs. Sigrun Sigurdson, Glenboro.
Miss Freda Thorkelson, Arnes.
Mrs. S. Sigurgeirson, Hecla.

Mrs. Anna Austman, Vidir.
Mrs. G. A. Erlendson, Arborg.
**Ardis Editors**—Mrs. I. J. Olafson, Selkirk
Mrs. O. Stephensen, Wpg.
Manager—Mrs. F. Johnson, Wpg.
Assistant Manager—Mrs. M. M. Jonasson, Arborg.

**Leadership Training Course Committee:**
Mrs. A. H. Gray, Winnipeg.
Mrs. H. Danielson, Wpg.
Mrs. J. Tergesen, Gimli.
Mrs. J. V. Jonasson, Wpg.
Mrs. B. M. Paulson, Arborg.
Mrs. A. Sigurdson, Arnes.
Mrs. H. G. Henrickson, Wpg.

As the convention came to a close it was felt that it had been a complete success. Each and everyone expressed his opinion frankly, and lively discussions were brought to satisfactory conclusions. The prayer meeting was an appropriate farewell, where the hearts of all present were united in prayer for peace, for peace in our own hearts, in our communities and in the world at large.

**L. M. Guttormsson**, Secretary

**Kvenfélag Herðubreiðar safnaðar Langruth**

Fundir fyrsta laugardag í hverjum mánuði.

Forseti .......... Mrs. G. Thorleifson
Varaforseti .. Mrs. J. Finnbogason
Skrifari ............ Mrs. H. Jackson
Féhirðir .......... Mrs. O. Oddson

**Kvenfélag Baldursbrá Immanuel safn.**

BALDUR, Man.

Fundir fyrsta miðvikudag í hverjum mánuði.
Minningarstjóður Kristjáns Jónssonar til líknarstarfs.

**Missionar Félag Immanuel Safnaðar**

WYNYARD, Sask.

Fundir fyrsta fimtudag í hverjum mánuði

**Kvenfélag Árdals safnaðar**
ÁRBORG, Man.

Fundir fyrsta fimtudag í hverjum mánuði

Heiðursforseti:
Hólmfríður Ingjaldsson
Forseti ....... Mrs. A. H. Anderson
Skrifari ....... Mrs. J. B. Johannson
Féhirðir........Mrs. S. A. Sigurdson

Kvenfélagið Freyja

GEYSIR, MAN.



Forseti..........Mrs. K. Sigurdson
Skrifari..............Mrs. S. Jakobson
Féhirðir........Mrs. S. G. Skúlason

**Kvenfélagið Björk Lundar, Man.**

Heldur fundi fyrsta föstudag í hverjum mánuði

Blómsveigasjóður
Þórðar Backmans til líknarstarfs.

**Kvenfélag Frelsissafnaðar að GRUND Í ARGYLE**

Fundur hadlinn fyrsta fimtudag í hverjum mánuði

Forseti.............Mrs. S. S. Johnson
Skrifari..........Mrs. Thori Goodman
Féhirðir............Mrs. B. S. Johnson

Kvenfélagið "Fjólan"

Brown, Manitoba

Embættiskonur:

Forseti.............. Johanna Olafson
Ritari.................. Lovisa Gislason
Féhirðir .................. Olafia Gillis

**Kvenfélagið "Framsókn"**
**Gimli safnaðar**

Fundur fyrsta fimtudag í hverjum mánuði
Blómsveigasjóður til líknarstarfs

Heiðursforseti:
Mrs. H. P. Tergesen

Forseti............Mrs. S. J. Tergesen
Skrifari...............Mrs. H. Stevens
Féhirðir ........... Mrs. J. Jakobson

**Kvenfélag Glenboro safn.**
GLENBORO, MAN.

Fundir fyrsta fimtudag í hverjum mánuði. — Blómsveigasjóður til líknarstarfs.

Forseti............Mrs. Björg Myrdal
Skrifari......Mrs. Guðrun Anderson
Féhirðir......Mrs. Lára Jósephsson

**Junior Ladie's Aid**

OF THE

FIRST LUTHERAN CHURCH

Meet second and fourth Tuesday of each month

WINNIPEG, MAN.

**Kvenfélag Fyrsta Lúterska Safnaðar Winnipeg**

Fundir klukkan 2.30 annan hvern fimtudag.

Forseti..............Mrs. A. S. Bardal
Skrifari..........Mrs. Finnur Johnson
Féhirðir...............Mrs. M. Paulson

Kvenfjelag Fríkirkju Safnaðar
BRÚ

Fundir fyrsta fimtudag í hverjum mánuði.

*Blómsveigasjóður til líknarstarfs.*

Forseti...............Mrs. H. Sveinson
Skrifari...............Mrs. C. Norman
Féhirðir...........Mrs. Oli Stefanson

Kvenfjelagið "Undina"
HECLA, MAN.



Fundir einu sinni í mánuði.
Sigurþóra Tomasson, forseti
Anna Jones, skrifari
Helga Johnson, féhirðir

**Kvenfélagið Ísafold**

Víðir, Manitoba



Fundir fyrsta þriðjudag í hverjum mánuði



**Kvenfélag Bræðrasafnaðar**
RIVERTON MAN.

Fundir þriðja fimtudag í hverjum mánuði.
Byrja kl. 2.30 e. h.

Heiðurs forseti,
Mrs. Helga Thorarinson

Forseti.................Mrs. H. Hallson
Skrifari...............Mrs. H. Eastman
Féhirðir...............Mrs. S. Olafsson

ÖLLUM ÞEIM SEM AUGLÝSA

Í ÞESSU RITI,

VOTTAR ÚTGÁFUNEFNDIN

VIRÐINGU

OG

ÞAKKLÆTI.





Printed in Canada by THORGEIRSON COMPANY, 674 Sargent Ave., Winnipeg